# Minningarrit

tuttugu og fimm ára afmælis

## Hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi.



1885—1910

# Minningar.

*Drottinn! þú varst vort athvarf*
*frá kyni til kyns.*



FÁTÆKIR komum vér og fákunnandi til framtíðarlandsins unga. Við oss blöstu frumskógarnir furðulegu, sléttumar endalausu og vötnin miklu. Auðlegð náttúrunnar sáum vér sem hilling í fjarlægð við uppkomu sólar. Enn þá áttum vér ekkert nema vonina—vonina, sem stundum varð tál.

Hrörleg voru býlin í fyrstu—bjálkakofar í skógum og torfkofar á sléttum. Lítil var björg á borði. Fáskrúðug bárum vér klæði. Ofurefli reyndist vosbúðin veilum. Margt var ungbarnið moldu orpið, og voru móðurharmar miklir að vonum.

Fjarlæg ættjörð varð hugum manna heilög og kær. Aldrei hefir Ísland verið heitar elskað af börnum sínum. Fjarlægðin breiddi helgan hjúp yfir ættlandið. Oss fór sem Gyðingum forðum: Vér sátum og grétum, er vér mintumst Zíonar. Á pílviðina hengdum vér upp gígjur vorar. Hvernig áttum vér að syngja drottins-ljóð í öðru landi?

Ár liðu og áratugir. Skógar voru ruddir. Kornakrar þöktu sléttumar. Búpeningur dreifði sér um græna haga. Iðnaður og kaupverzlun blómgaðist í borgum. Hallir risu þar sem áður voru hreysi. Skólaklukkur gullu í hverju þorpi og hljómuðu um allar sveitir. Kirkjuturnar teygðu

sig hátt upp mót himni í öllum áttum. Svo er mikil breyting orðin eftir mannsaldurinn fyrsta.

Nú búum vér hér glaðir á nýrri ættjörð. Hjörtu vor unna þessu landi eins og börn unna móður sinni. Þetta er vort land og barna vorra. Vér helgum því krafta vora og gefum því sérhvað gott, er vér eigum. Þar fyrir gleymum vér ekki feðralandinu forna. Vér hugsum líkt og skáldið við Babel-fljót:

Ef eg gleymi þér, Jerúsalem!
þá visni mín hægri hönd;
tunga mín loði mér við góm,
ef eg eigi man til þín.

Bognað hafa bök gömlu landnemanna. Stafstuddir ganga þeir nú, brautryðjendurnir fyrstu, sem enn eru ofan moldar. Lotningarfullir lútum vér þeim, er vér mætum þeim á förnum vegi. Vér leggjum þar við allan drengskap, að gleðja þá aldurhnigna og annast þá að aldurtila.

Margir eru þeir fallnir frá, feðurnir kæru, fullhugarnir, sem fyrstir sigldu sjóinn vestur, hjuggu veg um skóginn, báru plógjárn í ósnortna jörð. Karlmannleg var lund þeirra, hjartað hreint, viljinn stál. Hver telur alla svitadropa landnemans? Hver les úr rúnum þeim öllum, sem áhyggjurnar ristu á enni þeirra? Nú hvílast þeir og verk þeirra fylgja þeim. Eitt höfuðatriði hátíðarhaldsins þetta minningar-ár ætti að vera: að leggja blómsveig á leiði hvers fallins foringja og hlúa með lotningu að leiðum allra landnámsmanna. Blessuð sé minning þeirra!

Bygðir vorar breiddust víðsvegar út um álfuna. Nýlendur stofnuðum vér í fylkjum Canada og ríkjum Bandaríkja. En hvað gat tengt oss saman svo aðskilda og margdreifða? Tvent tengdi oss saman: **tunga** og **trú**. Móðurmál og feðratrú! Þær festar tvær fær enginn kraftur slitið. Vér lásum sömu bækur. Blöðin íslenzku fluttu hugsanir vorar milli nýlendnanna. Frá ættjörðinni bárust

oss bókmentir. Móðurmálið vort góða, hið mjúka og ríka, orð átti enn eins og forðum oss yndið að veita. Og trú vor óx í eldraunum frumbúalífsins. Trúin á guð, þótt áður væri hún, ef til vill, veik, varð nú að nýjum lífskrafti. Guð almáttugur er ávalt með á eyðimerkurferðum mannanna. Í skýinu fór hann á undan oss um daga og í eldinum um nætur. Um hafið lá leið hans og stígar hans um mikil vötn. Hann leiddi lýð sinn eins og hjörð. Vér horfðum til hæðanna og þaðan kom oss hjálpræðið. Það tengdi oss fastast saman, að vér trúðum, að einn er drottinn, ein trú, ein skírn, einn guð og faðir allra, sem er yfir öllum og með öllum og í öllum.

Í flestum bygðum tóku menn höndum saman til að varðveita þessa hina helgustu dóma. Fáir voru kennimenn vor á meðal, en hið almenna prestdæmi kristninnar lét sér ekki til skammar verða. Húsfeður og héraðshöfðingjar fluttu guðs orð og söfnuðu mönnum saman í kristileg félög. Andlega leiðtoga sendi oss drottinn á hentugri tíð. Söfnuðir mynduðust á mörgum stöðum. Sáu þá foringjar, að brýna nauðsyn bar til þess, að allir kristnir söfnuðir hjá þjóðflokksbrotinu vestan hafs tengdust saman. Svo myndi helzt vera borgið þjóðerninu og svo að eins myndi kirkjulegt líf ná að dafna. Af litlum kröftum, en mikilli trú, var svo efnt til allsherjar félags með Íslendingum í álfu þessari. Fyrir fjórðungi aldar var stofnsett Hið evangelisk-lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi. Og í tuttugu og fimm ár hefir kirkjufélagið tengt saman þúsundir manna.

Lítið var kirkjufélagið frá upphafi í samanburði við önnur kirkjufélög. Vér dirfðumst naumast að gefa því nafn. „Hvað mun þetta barn verða?“ spurðum vér.*) Fyrirrennari frelsarans var oss í huga og vér báðum guð, að það mætti eins og hann ganga fyrir augliti drottins, til að greiða götur hans, og gefa lýð hans þekkingu á hjálpræð-

*) Sbr. prédikan séra Jóns Bjarnasonar á fyrsta kirkjuþingi.

inu. Það ætlunarverk kaus sér hið litla kirkjufélag, að greiða frelsara mannkynsins veg um þjóðlíf vort. Það langaði til að fá að leiða alla menn, sem það næði að hafa áhrif á, til Jesú Krists, útbreiða sáluhjálplega lærdóma guðs opinberaða orðs og svala þyrstum sálum með sakramentum kristinnar kirkju. Lítið hefir oss ef til vill orðið ágengt. Örðugleikarnir hafa verið margir, stríðið látlaust. Með postulanum getur kirkjufélagið sagt, að ef það mætti hrósa sér, þá vildi það helzt hrósa sér af bágindum sínum. Við tuttugu og fimm ára aldurinn er það enn lítið og lasburða. Mótlæti mikið hefir því enn að höndum borið. Það harmar burtför margra barna sinna. Við tímamót þessi eru áhyggjuefni þess mörg og stór, eins og oft hefir áður verið.

Þótt margt þrengi að, þá er samt gleðin mikil í hjörtum vorum á tímamótum þessum. Er vér lítum yfir liðna tíð, dylst oss ekki, að guð hefir ríkulega blessað oss. Taugar hjartna vorra titra af þakklætis-tilfinningu. „Guði sé lof fyrir liðna tíð!“ Og fram til ókomins tíma horfum vér fullir vonar. Ekki svo að skilja, að af sjálfum oss megnum vér nokkuð. En sá guð, sem oss hefir áður leitt um eyðimerkur, mun halda hlífðarhendi yfir oss enn á erviðri leið. Trúaröruggir felum vér kirkjufélag vort í hendur föður vorum á himnum. Kross Jesú Krists skal borinn sem hermerki í fararbroddi. Undir því merki tökum vér oss upp úr áfangastað tuttugu og fimm ára afmælisins. Guð einn veit, hvað framtíðin geymir í skauti sínu. Undir hermerki drottins vors Jesú Krists getur oss ekkert grandað. Í þeirri trú segjum vér öruggir: Fram! Krists menn, kross menn, konungs menn!

B. B. J.



# Hátíðarljóð

*við 25 ára afmælis minningu Hins evangelisk-lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi*

1910.

Eftir séra VALDIMAR BRIEM.

INNGÖNGUVERS.

(Lag: Óvinnanleg borg er vor guð.)

GUÐ, faðir vor á himnahæð!
þitt helgist nafnið dýra;
þitt ríki útbreið, efl og glæð;
lát oss þinn vilja stýra.
Gef daglegt brauð og björg;
og brot vor kvitta mörg;
oss freistni forða við;
alt frelsa mannkynið.
Þín dýrð er eilíf. Amen.

I.

YFIR HAFIÐ.

(Lag: Hinn mikli myndasmiður)

OSS hermir sagan helga
um hraustan drottins lýð,
er fýstist að flytja úr landi
og firrast margskonar stríð.

Það mikill fólks var fjöldi,
er fór um Rauða-haf.
Í háskanum guð þeim hlífði;
svo heilir komust þeir af.

Vér eigum einnig sögu.
og erum drottins þjóð.
Til fjarlægrar álfu' oss fýsti,
að finna greiðari slóð.

En fátt var hér í flokki,
er fór um Atlanzhaf.
Eins hér yfir hafið bláa
guð hjálp þeim fámennu gaf.

Þótt öldurnar sig ýfðu,
ei unnu þær oss grand.
Guð hastaði' á hafsins bylgjur;
vér heilir komumst á land.

Og hérna megin hafsins
guð hefir oss ei gleymt.
Nú lofum vér hann af hjarta,
sem hefir lýðinn sinn geymt.

---

## II.
## Í EYÐIMÖRKINNI.

(Lag: Ó guð! þér hrós og heiður ber.)

NÚ fyrir höndum löng var leið,
og lýðsins margur vandi beið.
En guð var með og greiddi braut
í gegnum hverja raun og þraut.

Með skýi guð sinn leiddi lýð.
Svo leiddi guð oss fyr og síð.

Í gegnum skýin sorga svört
þá sólin skein guðs líknar björt.

Með eldi lýð sinn leiddi hann;
þá ljós þeim upp í myrkri rann.
En fegra ljós þó fengum vér:
Guðs frelsisráð var boðað hér.

Með sulti reyndi' hann sína hjörð,
en sætt þó „manna“ gaf á jörð.
Og heilagt „manna“ himnum af
oss hann í vorri fátækt gaf.

Með þorsta reyndi' hann þá sitt lið,
en þar gaf drykk af hellu við.
Í dagsins þunga' og hita hér
frá himni svölun fengum vér.

Þá gullkálfurinn glapti þar,
sem gler hann sundur mulinn var.
Og gullið hér oss ginti þrátt,
en guð oss standast lét þess mátt.

Guð sjálfur lög þeim setti há,
er Sínaí hann birtist á.
Á lágri sléttu líka hér
vor lög frá guði höfum vér.

Nú leið er farin löng og ströng,
því ljóðum vér nú gleðisöng.
Þér, guð! vér þökkum gengin spor,
er greiddir þú oss, faðir vor!

---

## III.
## LANDIÐ UNNIÐ.

(Lag: Þú, guð! sem stýrir stjarna her.)

HIÐ fagra land er numið nú
í nýjum blómareitum.
Hér reist vér höfum bygð og bú
í borgum og í sveitum.

En áður en vér unnum land
vér áttum skærur margar.
Oss Fílistear gjörðu grand.
En guð er sá, sem bjargar.

Vér Baal og Mólok unnum á
og ótal fénda goðum.
Vér sverðin reiddum helg og há
að herrans eigin boðum.

En sá, er dýrstan sigur vann,
var sjálfur drottinn Kristur.
Í orustum með oss var hann,
og æ í liði fyrstur.

Hinn nýja Davíð dýrkum vér,
þann drottin herskaranna.
Hann konunganna æðstur er,
og engla guð og manna.

Hans vald um alla veröld nær,
ei veldisstóll er slíkur.
Hans náðarríki nær og fjær
ei nokkru sinni lýkur.

Nú lúti sérhvert land og þjóð
þess lávarðs konungdómi,
og honum flytji lofsöngsljóð
með ljúfum hug og rómi.

## IV.
## MUSTERIÐ.

(Lag: Upp skepna hver, og göfga glöð.)

HÉR ljómar dýrðlegt drottins hús,
hér drottins birta skín.
Nú heldur lýður hjartans fús,
ó, herra guð! til þín.

Ei lengur daprir drúpum vér
í dauðans eyðimörk.
Á hrakning eigi framar fer
hin fagra drottins örk.

Fyr Davíðs sonur dýrðarhöll,
vor drottinn! reisti þér.
En konunglegri' er kirkjan öll,
sem Kristur helgar sér.

Hans konungshöll er kirkjan hér,
já, kristnin öll sem heild.
Af henni að eins erum vér
ein einstök lítil deild.

Krists merki sett vér höfum hátt,
vér hopa' ei vildum spor.
Vér guðs orð höfum óskert átt,
það eitt er heiður vor.

Hér tignarleg guðs tjaldbúð skein
í tuttugu' og fimm ár.
Þar lýstu guðs orðs ljósin hrein.
Þér lof sé, guð vor hár!

Þó býsna margt hjá oss var að
og ófullkomleik háð.
En fyrirgef oss, faðir! það
af föðurlegri náð.

Þitt ríki, drottinn! öflugt er,
vort eigið ráð er valt.
Oft vorra ferða fórum vér.
Ó, fyrirgef það alt.

---

## V.
### RÍKIÐ SKIFTIST.

(Lag: Sælir þeir, er sárt til finna.)

RÍKIÐ skiftist, vex nú vandinn;
vill þá tvístrast drottins hjörð?
Sami þó er sífelt andinn,
sama ríki guðs á jörð.

Mörg þótt upp sé misklíð sprottin
má ei sundrast ríkið hans.
Sami' er Kristur, sami' er drottinn,
sami faðir kærleikans.

Gegn oss ríki voldug vaka,
vilja hremma Ísrael.
Kirkju guðs mun síður saka,
saman ef vér höldum vel.

Enn er herská Assyría,
enn er voldug Babýlon.
Enn má samtök endurnýja,
er þá meiri sigurs von.

Hermenn guðs mót veröld verum,
vinnum fyrir ríki hans.
Sama merkið sífelt berum:
sigurmerki frelsarans.

Mæðumst ei þótt margt oss ami,
mörg er leið unz ferðin dvín.
Einn er guð og æ hinn sami,
ein á himni sólin skín.

---

## VI.
## ÚTLEGÐIN.

(Lag: Kom skapari, heilagi andi!)

VÉR áttum fagra fósturjörð,
er fóstrað hefir börnin smá.
Hún einatt býr við örlög hörð
og ýmsar raunir þola má.

„Þar fram vér gengum fyrstu spor",
já, flestir vorir eldri menn.
Þar fyrst vér lærðum „faðir-vor";
þau föðurhús vér munum enn.

Oft þangað líður hugur heim
með hjartanlegri bæn og þrá.
Guð sína blessun sendi þeim,
er sigur með oss þrá að fá.

Oss fanst vér oft í útlegð hér
og ættarstöðvum hraktir frá.
Oss fýsti heim, en fegurst er
þó föðurlandið himnum á.

Vér einatt þangað horfum heim
úr heimsins miklu Babýlon.
Guð frelsar þá og fylgir þeim,
er festa trú á mannsins son.

Já, fylgjumst þangað allir að
og endurreisum vora borg.

Í drottins háa dýrðarstað
er dvínað alt vort stríð og sorg.

Vor drottinn Kristur! dýrð sé þér.
Hve dásamleg sú borgin skín!
Eg leystur senn úr útlegð er
og aftur kominn heim til mín.

---

VII.

## FYRIRHEITIN RÆTAST.

(Lag: Þín miskunn, ó guð' er sem himininn há.)

ÞAU fyrirheit rætast, er fyr voru gjörð
um frelsarann gjörvallra þjóða,
er forðum hér gekk hann á feðranna jörð,
oss frelsið og lífið að bjóða.

Hann kom eigi hávær með hróp eða köll,
en himneska friðinn sinn blíða.
Hann föður síns börn hefir innilukt öll
í elskunnar faðminum þýða.

Hann brýtur ei sundur hinn brákaða reyr
og blaktanda ljós eigi slökkur.
Hann man það, að vér erum veikir sem leir
og veraldar þráðurinn stökkur.

Hann kemur með sannleik, hann kemur með náð,
hann kemur með friðinn á jörðu;
og kærleikans eld hér hann kveikir um láð,
svo kul fer úr brjóstunum hörðu.

Og koma mun tíð sú, er kætist vor lund,
þá kristninnar greiðast mun hagur.
Þá komum vér allir á fagnaðar-fund
og friðarins upp rennur dagur.

Þá sverð reiðir enginn gegn annari þjóð,
og enginn gegn bróður mún snúa.
Þá ljónið og aliféð eina fer slóð,
hjá úlfinum lambið mun búa.

Úr sverðunum plógjárnin gjöra menn góð,
svo guðsakur megi þeir yrkja.
En sáðið er frelsarans blessaða blóð,
þá blómgast að nýju guðs kirkja.

Ó, leið þú oss, guð vor! á ljósanna braut,
er liggur til hásala þinna.
Vort félag vér leggjum í lausnarans skaut,
þar lát þú oss sæluna finna.

---

## ÚTGÖNGUVERS.

(Lag: Óvinnanleg borg er vor guð.

Í dag vér héldum hátíð nú,
svo hver einn sjá það megi,
að játum vér á Jesúm trú;
sú játning bregst oss eigi.
Vér Krists og krossins menn,
hans krafti studdir enn,
„hér stöndum enn sem er,
ei annað getum vér.
Guð hjálpi' oss öllum. Amen“.



# Kirkjufélagið.

Yfirlit yfir sögu þess og starf.
1885——1910.

I. UM KIRKJUMÁL LANDNÁMSMANNA.



SVO er talið, að fólksflutningur frá Íslandi til Norður-Ameríku byrji árið 1870. Settust fyrstu innflytjendur að í Milwaukee-borg í Wisconsin-ríki í Bandaríkjum, og nokkrir þeirra námu litlu síðar land í Washington-ey í Michigan-vatni og búa þar sumir enn. Sumarið 1874 var tala Íslendinga í Milwaukee um eitt hundrað, eða lítið meira. Þá, að áliðnu sumri, fluttu fáeinir af þeim sig til Shawano-héraðs í Wisconsin og festu sér þar lönd; en litlum þroska náði sú nýlenda, og eftir fá ár fluttu þeir sig aftur þaðan í nýlendurnar, sem þá voru að myndast í Minnesota og Dakota. Árið 1874 voru gerðar landkönnunarferðir bæði til Alaska og Nebraska. Lítill hópur fluttist síðar til Nebraska, en ekkert varð af landnámi í Alaska.

Sumarið 1873 fluttist nokkuð á annað hundrað manns frá Íslandi til Ontario-fylkis í Canada. Myndaðist þá lítil nýlenda í Muskoka-héraði, nokkrar mílur austan við þorp, er Rosseau heitir, en margt af innflytjendum þessum dreifðist víðsvegar um fylkið og nokkrir fóru, seint um haustið, vestur til Milwaukee.—Þar voru á þeim tíma aðal-stöðvar Íslendinga vestan hafs.



**Fyrsta ársþing hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vesturheimi (1885).**

Fr. J. Bergmann. E. H. Bergman. J. Hall. B. Jónsson. P. S. Bardal. B. Pétursson. J. Stefánsson. Ben Pétursson. St. G. Stephanson. B. L. Baldvinsson. Magnús Paulson. Fr. Friðriksson. séra Jón Bjarnason. Árni Friðriksson. Gísli Jónsson. Þorl. G. Jónsson. Sigurður Jósúa Björnsson. Kristján Kjærnested. Fr. Jónsson. Guðm. Björnsson. Jón Ólafsson. Þorsteinn Jóhannesson. Ólafur Guðmundsson.

Enn kom margt fólk frá Íslandi til Ontario haustið 1874. Nam það staðar í grend við lítinn bæ, sem nefndur er Kinmount, um 100 mílur norðaustur frá Toronto. Voru þar bygðir skálar nokkrir til íbúðar fyrir fjölskyldur. Karlmenn unnu að járnbrautargerð, en ógift kvenfólk og unglingar réðust í vistir til innlendra bænda. Hvergi þar nálægt var völ á góðu landi fyrir íslenzka nýlendu. Í Marzmánuði um veturinn 1875 fluttu sig þaðan og frá öðrum stöðum í Ontario nokkrar fjölskyldur austur til Nova Scotia, settust að í skóglendi miklu og hrjóstugu og námu þar lönd. Síðar bættust fleiri við tölu þeirra nýlendumanna, svo að landnemar munu að síðustu hafa orðið yfir 30. Eftir nokkur ár fluttu þeir sig flestir eða allir þaðan í hinar blómlegu nýlendur, er þá voru að byggjast í Minnesota, Dakota og Manitoba.—Árið 1875 myndast nýlendan í Minnesota. Fyrstu landnemar komu þangað frá Wisconsin og settust að í Lyon-héraði. Á næstu árum fluttist þangað margt fólk frá Íslandi, og er land var alnumið í því héraði, færðist bygðin út til næstu héraða, sem kend eru við Lincoln og Yellow Medicine.

Sumarið 1875 gerðu Íslendingar í Ontario út sendinefnd í landkönnunarferð vestur til Manitoba. Valdi nefndin nýlendusvæði á vesturströnd Winnipeg-vatns, rétt norðan við takmörk Manitoba-fylkis, er þá voru. Hefir þar síðan verið nefnt Nýja Ísland. Var þar mikið landrými og alt óbygt.

Um haustið lögðu um 250 manns á stað til nýlendunnar og bættust fleiri í hópinn á leiðinni, bæði frá öðrum stöðum í Ontario og sunnan úr Bandaríkjum. Næsta sumar (1876) komu tveir stórir hópar innflytjenda frá Íslandi til Nýja Íslands, um 1200 manns samtals. Bættist þar miklu fleira fólk við síðar.

Ekki liðu mörg ár áður en burtflutningshugur kom í margt fólk í Nýja Íslandi. Leiddi það til þess, að tvær nýjar bygðir mynduðust. Árið 1878 fóru nokkrir menn í

landkönnunarferð suður til Pembina-héraðs í Dakota. Leist þeim þar vel á landskosti, og settust sumir þeirra þar þegar að, og fleiri komu síðar það ár; næsta ár flutti sig þangað margt fólk frá Nýja Íslandi. Einnig komu um það leyti inn í nýlendu þessa allmargir frá Minnesota og Wisconsin, og hófst þar mikið landnám.

Árið 1880 var farin landkönnunarferð frá Nýja Íslandi vestur um Manitoba-fylki. Var nýlendusvæði valið þar sem heitir Municipality of Argyle. Fluttust þangað allmargir landnemar næsta ár og fleiri bættust síðar við. Hefir nýlenda sú verið nefnd Argyle-bygð.

Á þessum árum, þá fólksflutningur var mestur til Nýja Íslands og þaðan aftur til Dakota og Argyle, settust allmargir Íslendingar að í bænum Winnipeg í Manitoba-fylki, og var þar ávalt síðan aðal-áfangastaður íslenzkra innflytjenda, og urðu Íslendingar þar mjög fjölmennir.

Nú eru taldar helztu stöðvar þær, sem Íslendingar bygðu, þá er kirkjufélagið var stofnað.

* * *

Fyrsti kennimaður íslenzkur vestan hafs er séra Jón Bjarnason. Hann kom til Vesturheims frá Íslandi árið 1873. Fyrsta prédikan, sem flutt var á íslenzka tungu í Ameríku, var prédikun sú, er hann flutti fyrir Íslendingum í Milwaukee á þúsund-ára þjóðhátíð Íslands 2. ágúst 1874. Var hún síðar prentuð í Kaupmannahöfn. Fyrsti söfnuður Íslendinga var stofnaður í Shawano-bygð í Wisconsin 1875, cg þjónaði honum séra Páll Þorláksson*), er það ár vígðist til prests innan Norsku sýnódunnar, megin-kirkjufélags lúterskra Norðmanna, að loknu guðfræðisnámi við þýzklúterskan prestaskóla í St. Louis. Séra Páll hafði komið frá Íslandi vorið 1872. Séra Jón Bjarnason var fyrstu árin eftir komu sína til Ameríku í þjónustu Norðmanna, tvö ár kennari við lærðaskóla Norsku sýnódunnar í Decorah, Iowa, og síðan þar til haustið 1877 ritstjóri norska blaðsins „Budstikken“ í Minneapolis, Minnesota.

*) Sjá æfisögu hans síðar í þessu riti.

Prestar þeir tveir, er nú hafa nefndir verið, séra Jón Bjarnason og séra Páll Þorláksson, gerðust brátt andlegir leiðtogar landa sinna. Í Nýja Íslandi, sem þá var langstærst nýlenda Íslendinga, hófst all-sterk hreyfing í þá átt, að fá prest til nýlendunnar veturinn 1876—1877. Árið áður hafði komið til tals að fá þangað séra Pál Þorláksson, sem hafði tjáð sig fúsan til að gerast prestur nýlendumanna, og var Norska sýnódan viðbúin að styðja trúboð hans í Nýja Íslandi. Í annan stað höfðu menn nú augastað á séra „Jóni Bjarnasyni. Um veturinn voru fundnir haldnir á ýmsum stöðum í nýlendunni til að ræða prestsmálið. Urðu menn ekki á eitt sáttir. Vildu sumir taka boði séra P. Þ. og Norsku sýnódunnar, en aðrir kváðust lítt kunnugir því kirkjufélagi og vildu heldur ráða séra J. Bj., sem óháður var hérlendum kirkjufélögum, hafði lokið guðfræðisnámi á Íslandi og tekið þar prestvígslu. Í Júlímánuði 1877 heimsótti séra Jón Bj. Nýja Ísland, prédikaði þar og vann ýms prestsverk, hvarf svo aftur til Minneapolis. Eftir það myndaðist byrjun til safnaða-félaga á nokkrum stöðum í nýlendunni. Komu svo fulltrúar félaga þeirra saman á fund 5. September og sömdu í nafni 130 heimilisfeðra áskorun til séra Jóns Bjarnasonar um að takast á hendur prestsþjónustu hjá þeim. Séra Jón varð við áskorun þessari og kom til safnaða sinna 8. Nóvember 1877. Söfnuðir þessir nefndust „Hið lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi". Grundvallarlög félagsins, í 10 greinum eru prentuð í „Framfara" I, 16. Söfnuðirnir voru 5 og nefndust: Bræðrasöfnuður, Breiðuvíkursöfnuður, Mikleyjarsöfnuður, Bæjarsöfnuður (á Gimli) og Steinkirkjusöfnuður. Söfnuðum þessum þjónaði séra Jón þar til í marzmánuði 1880, er hann hvarf til Íslands.

Í annan stað höfðu nýlendumenn samtök til að fá til sín séra Pál Þorlákson. 120 heimilisfeður skoruðu á hann að takast prestsþjónustu á hendur hjá sér. Varð séra P. Þ. við áskoran þeirri og kom til Nýja Íslands 19. Okt. 1877. Mynduðu nú áhangendur séra Páls söfnuði og nefndu fé-

lag sitt „Hinn íslenzka lúterska söfnuð í Nýja Íslandi". Safnaðalög í 21 grein eru prentuð í „Framfara" I. 16. Söfnuðir þeir, er séra P. Þ. þjónaði, hétu: Vídalínssöfnuður, Hallgrímssöfnuður og Guðbrandssöfnuður. Margt af safnaðafólki séra Páls fluttist árin 1878 og 1879 til nýlendunnar nýju í Dakota, og fór séra Páll þangað alfarinn úr Nýja Íslandi vorið 1879.

Á árum þeim, er þeir séra Jón og séra Páll voru þjónandi prestar í Nýja Íslandi, voru trúmáladeilur miklar og almennar. Trúarleg alvara hefir víst sjaldan verið meiri með þjóð vorri en þá var í nýlendunum hér vestra. Blaðið „Framfari" var þá gefið út í Nýja Íslandi. Þar voru deilumálin rædd greinilega og bárust með blaðinu til Íslendinga út um aðrar bygðir þeirra. Dagana 17. og 18. Marz 1879 var haldinn trúmálafundur á Gimli í Nýja Íslandi. Mættu þar prestarnir báðir og mesti fjöldi safnaðamanna frá báðum flokkum úr öllum pörtum Nýja Íslands, og mun það vera einhver merkilegasti fundur, sem Íslendingar hafa haldið vestan hafs.

Áður en séra Jón Bjarnason fór alfarinn úr Nýja Íslandi vígði hann til prests cand. theol. Halldór Briem*), og tók hann við prestsþjónustu í söfnuðum þeim, er séra Jón hafði þjónað. Athöfn sú fór fram á Gimli 21. Marz 1880. Séra Halldór Briem hafði fyrst komið til Ameríku árið 1876 og verið túlkur innflytjenda-hópsins stóra annars, sem það ár kom frá Íslandi, dvalið næsta vetur suður í Bandaríkjum, farið um vorið til Íslands og komið aftur um haustið 1877. Eftir það hafði hann verið ritstjóri „Framfara". Séra Halldór Briem þjónaði eitt ár í Nýja Íslandi. Þá flutti hann sig til Winnipeg og vitjaði þaðan landa sinna í Argyle-bygð, Dakota og Minnesota.

Í nýlendu Íslendinga í Minnesota höfðu myndast söfnuðir veturinn 1879—1880. Þeir séra Jón Bjarnason og séra Páll Þorláksson höfðu vitjað fólks í því bygðarlagi nokkr-

*) Sjá æfiágrip hans síðar í riti þessu.

um sinnum á árunum 1878– 1880 og unnið þar prestsverk. Þessir söfnuðir kvöddu nú séra Halldór Briem til kennimanns vorið 1881; fór hann til þeirra og dvaldi þar nær árlangt. Þaðan kom hann svo aftur vorið 1882 til Winnipeg. Dvaldi hann þar þó í þetta skifti að eins þrjá mánuði, og þjónaði Winnipeg-Íslendingum, en vitjaði einnig landa sinna í Dakota-nýlendunni og í Argyle á þeim tíma. Síðan fór hann alfarinn til Íslands. Voru Minnesotamenn prestlausir eftir það í mörg ár, reyndu þó hvað eftir annað að fá prest frá Íslandi, en enginn gaf kost á sér



KIRKJA VÍKURSAFNAÐAR, MOUNTAIN, N. D.,
þar sem kirkjufélagið var stofnað

Séra P. Þorláksson þjónaði í Dakota eftir að hann hvarf frá Nýja Íslandi, og myndaði þar söfnuði; var þar (í Víkursöfnuði á Mountain) síðar reist hin fyrsta íslenzka kirkja í Vesturheimi [1884]. En hans naut ekki nema skamma stund. Hann andaðist um vorið 1882 úr brjóstveiki, er lengi hafði þjáð hann. Séra Páll var greftraður í kirkjugarðinum á Mountain, og þar hafa landar hans reist honum minnisvarða.

Þá er séra Páll var fallinn frá, séra Jón og séra Halldór komnir til Íslands, stóðu Íslendingar eftir prestlausir í öllum bygðum. Þó bættist von bráðar úr neyð safnaðanna í Dakota, því árið eftir andlát séra Páls fengu þeir fyrir prest séra Hans B. Thorgrímsen. Hann hafði komið til Ameríku ásamt séra Páli Þorlákssyni árið 1872, gengið á hinn lærðaskóla Norðmanna í Decorah, Ia., og þar á eftir lesið guðfræði við prestaskóla Norsku sýnódunnar í Madison, Wis., og prestaskóla Þjóðverja í St. Louis. Prestsvígður var hann af Norsku sýnódunni 1882.

Árið 1884 kom séra Jón Bjarnason aftur til Ameríku og settist að í Winnipeg. Flutti hann þar þá fyrst prédikun 20. Ágúst í húsi „Framfarafélagsins". Í Winnipeg hafði myndast dálítill söfnuður og voru í honum 137 manns. Á fundi, sem haldinn var rétt eftir að séra Jón kom til Winnipeg, 24. Ágúst, bættutt 46 í söfnuð. Tók nú séra Jón að sér þjónustu safnaðarins í Winnipeg, en jafnframt vitjaði hann Íslendinga í Argyle-bygð. Þar hafði myndast söfnuður [Fríkirkjusöfnuður] 1. Janúar 1884, og annar söfnuður [Frelsissöfnuður] var stofnaður í bygðinni árið á eftir.

Þannig var komið kirkjumálum Íslendinga í Vesturheimi, þegar kirkjufélagið var stofnað.

## II. STOFNAÐ HIÐ EVANGELISK-LÚTERSKA KIRKJUFÉLAG ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

ÞEGAR séra Jón Bjarnason kom aftur til Ameríku og tók við prestsþjónustu meðal landa sinna í Canada, fóru þeir prestarnir tveir, hann og séra Hans B. Thorgrímsen, sem prestsþjónustu hafði á hendi hjá Íslendingum í Dakota, að tala sig saman um formlegt samband milli safnaðanna víðsvegar í bygðunum. Þeir gengust fyrir því, að allsherjar kirkjumálafundur var haldinn að Mountain í Norður-Dakota dagana 23.—25. Janúar 1885. Blaðið „Leifur" frá 11. Febrúar 1885 flytur skýrslu þá af fundinum, sem hér fer á eftir:

„Á fundinum mættu sem fulltrúar: Fyrir Víkursöfnuð í Dakota: séra Hans Thorgrímsen, Haraldur Þorláksson, Friðbjörn Björnsson, Halldór Fr. Reykjalín, Jón G. Pálmason. Fyrir Park-söfnuð, D. T.*): Jón Þórðarson, Jakob Líndal, Ásgeir Helgason, Jónas Hall, Kristinn Kristinsson. Fyrir Garðarsöfnuð, D.T.: Eiríkur H. Bergmann, Jón Bergmann, Sigfús Bergmann, Hallgrímur Gíslason, Jósef Sigvaldason. Fyrir Pembina-söfnuð, D.T.: Sigurður Mýrdal, Stefán Eyjólfsson, Jón Jónsson. Fyrir Tungár-söfnuð, D.T.: Þorsteinn Jóhannesson, Björn Árnason, Björn Skagfjörð, Pálmi Hjálmarsson. Fyrir Íslendinga við Little Salt, D.T.: Ólafur Guðmundsson. Fyrir Winnipeg-söfnuð í Manitoba: Magnús Pálsson, Jón Björnsson, Árni Friðriksson, Páll S. Bárdal, Sigurður J. Jóhannesson. Fyrir söfnuð Íslendinga í Argyle, Manitoba: Séra Jón Bjarnason. Fyrir Íslendinga í Nýja Islandi: Friðjón Friðriksson.

„Fundurinn var byrjaður með því að syngja sálminn númer 42 í hinni nýju íslenzku sálmabók**): þar á eftir flutti séra Hans Thorgrímsen bæn,

„Til forseta fundarins var kosinn Magnús Paulson og til varaforseta Jón Þórðarson; til fundarskrifara var kosinn Kristinn Kristinsson og til varaskrifara Friðbjörn Björnsson.

*) Sama sem Dakota Territory, nú Norður-Dakota.

**) Þ. e. sálmabókinni [?]l. (frá 1871): „Í nafni Jesú athöfn má öll vor stofnast á jörðu",

„Forseti setti fundinn kl. 12 á hádegi.

„Séra Hans Thorgrímsen lagði fram fjórar greinar þess innihalds, að þar eð vér Íslendingar í Vesturheimi stöndum á einum og sama trúargrundvelli, þá ættum vér allir að mynda sameiginlegt kirkjufélag.

„Þessar greinar voru samþyktar í einu hljóði.

„Safnaðarfulltrúarnir frá Víkursöfnuði, frá Park-söfnuði og frá söfnuðunum í Manitoba lögðu fram frumvörp til kirkjufélagslaga.

„Eftir að þessi þrjú frumvörp höfðu verið lesin upp fyrir fundinum, var kosin 10 manna nefnd til þess að yfirskoða þau og draga þau saman í eina heild, sem lögð yrði fyrir fundinn til umræðu. - - -

„Þá var klukkan 10 e. h., svo fundi var frestað til næsta dags.

„Hinn 24. Jan. kl. 1 e. m. kom fundur saman á ný. Lagði þá framsögumaður nefndarinnar, Friðjón Friðriksson, fram frumvarp til kirkjufélagslaga, er nefndin með meira hluta atkvæða hafði samþykt.—Eftir að frumvarp þetta hafði verið rætt og við það gjörðar litlar breytingar voru allar greinar þess samþyktar í einu hljóði, nema hin 6. grein. Samkvæmt grein þessari hefir kvenfólk jafnt sem karlmenn kjörgengi til ársfundar félagsins og atkvæðisrétt í kirkjumálum. Út af þessu atriði komu fram mjög mismunandi skoðanir; nokkrir mæltu móti kvenréttinum. en hinir vörðu hann. Greinin var lengi rædd, og er kl. var orðin 12 e. m., var samþykt að fresta fundi þar til eftir guðsþjónustugjörð næsta dag.

„Á sunnudagskvöldið hinn 25. Janúar kl. 6½ kom fundur saman á ný og tók aftur til umræðu hina 6. grein kirkjufélagslaga-frumvarpsins. Var loksins gengið til atkvæða um hana og hún samþykt með 18 atkvæðum. 8 greiddu atkvæði á móti, 1 fulltrúi var ekki á fundi og 2 greiddu ekki atkvæði.

„Fundurinn ákvarðaði að halda áfram tilraun þeirri,

sem byrjuð er til sameiningar, og fól prestunum á hendur að halda málinu í þá stefnu.

„Það var ákveðið, að fulltrúarnir tilkynni séra Jóni Bjarnasyni, hvort kirkjufélagslögin verða samþykt í söfnuðum þeirra eða ekki, og var honum falið að kalla til hins næsta (fyrsta) ársfundar félagsins.



KIRKJA FYRSTA LÚT SAFNAÐAR Í WINNIPEG,
þar sem 25 ára afmælishátíðin er haldin.

„Að lokum flutti séra Jón Bjarnason bæn og fundarmenn sungu sálminn nr. 43 í nýju sálmabókinni.*)"

Samkvæmt ályktan á undirbúningsfundinum á Mountain boðaði séra Jón Bjarnason til fyrsta ársfundar

*) Þ. e „Víst ertu, Jesú! kongur klár".

hins evangelisk-lúterska kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimí, og var hann settur í húsi „Framfarafélagsins“ í Winnipeg, 24. dag Júnímánaðar 1885. Í upphafi fundarins prédikaði séra Jón Bjarnason og hafði fyrir texta Lúk. I, 5—17 og 57—80. Að guðsþjónustu aflokinni skýrði hann frá, að tilkynningu hefði hann fengið um það, að kirkjufélagslögin, sem samin voru á fundinum að Mountain 23.—25. Jan. þ. á., væri samþykkt í söfnuðum þeim tólf, er nú skal greina: Park-söfnuði, Tungár-söfnuði, Austur-Sandhæða-söfnuði, Pembina-söfnuði og Little Saltsöfnuði í Dakota, Winnipeg-söfnuði, Fríkirkju-söfnuði, Syðra Víðines-söfnuði, Nyrðra Víðines-söfnuði, Árnes-söfnuði, Breiðuvíkur-söfnuði og Bræðra-söfnuði í Manitoba.

Fulltrúar frá söfnuðum þessum höfðu mætt á fundinum, 18 að tölu, sem nú greinir: Stefán Guðmundsson og Jónas Hall fyrir Park-söfnuð; Guðm. Björnsson og Þorsteinn Jóhannesson fyrir Tungár-söfnuð; Gísli Jónsson fyrir Austur-Sandhæða-söfnuð; Sigurður Mýrdal fyrir Pembina-söfnuð; Ólafur Guðmundsson fyrir Little Salt-söfnuð; Magnús Pálsson, Páll S. Bárdal, Baldwin L. Baldwinson og Árni Friðriksson fyrir Winnipeg-söfnuð [auk séra Jóns Bjarnasonar]; Björn Jónsson og Friðrik Jónsson fyrir Fríkirkjusöfnuð; Kristján Kjernested fyrir Syðra Víðines-söfnuð; Jónas Stefánsson fyrir Nyrðra Víðines-söfnuð; Gísli Jónsson fyrir Árnes-söfnuð; Friðjón Friðriksson fyrir Breiðuvíkur-söfnuð, og Benedikt Pétursson fyrir Bræðrasöfnuð.

Í Garðar-söfnuði og Víkur-söfnuði höfðu kirkjufélagslögin enn ekki verið samþykkt vegna ágreinings út af 6. grein*). Þó mættu á fundinum fulltrúar frá þeim söfnuðum: séra Hans Thorgrímsen, Sigurður Jósúa Björnsson og Þorlákur G. Jónsson fyrir Víkur-söfnuð, og Eiríkur H. Bergmann og Friðrik J. Bergmann fyrir Garðar-söfnuð. Var mönnum þessum þegar veitt málfrelsi á fundinum. Síðar á fundinum var gjörð sú breyting á grundvallarlögunum, sem fundarmenn þessir álitu nægilega til þess menn gætu sam-

*) Um jafnrétti kvenna.

einast. Voru þeim þá með samhljóða atkvæðum allra veitt fullkomin fundarréttindi,

Til fundarstjóra var kosinn Björn Jónsson. Skrifari fundarins var Jón Ólafsson.



Jón Bjarnason.

Að endurskoðuðum grundvallarlögunum, voru kosnir hinir fyrstu embættismenn kirkjufélagsins: formaður séra Jón Bjarnason, skrifari Friðjón Friðriksson, féhirðir Árni

Friðriksson. Var þá fullmyndað Hið evangelisk-lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi.

## III. VÖXTUR OG VIÐGANGUR KIRKJUFÉLAGSINS.

SAMA ár sem kirkjufélagið var stofnað lét séra Hans B. Thorgrímsen af prestsþjónustu meðal Íslendinga og hvarf aftur til Norðmanna. En árið á eftir, sumarið 1886, bættist kirkjufélaginu nýr starfsmaður séra Friðrik J. Bergmann. Hann hafði fyrst stundað nám við skóla Norðmanna í Decorah, Iowa. Síðan hafði hann lesið guðfræði við háskólann í Kristjaníu í Norvegi. Þaðan hafði hann komið árinu áður og setið sem fulltrúi Garðar-safnaðar á fyrsta ársþingi kirkjufélagsins. Næstliðinn vetur hafði hann stundað guðfræði við prestaskóla General Council's í Philadelphia, útskrifast þaðan um vorið og verið prestvígður í einni deild General-Council's. Nú gerðist hann prestur safnaðanna í Dakota. Á leiðinni til safnaða sinna hafði hann vitjað safnaðanna íslenzku í Minnesota, sem enn voru prestlausir, og ekki höfðu sameinast kirkjufélaginu sökum fjarlægðar. Annað ársþing kirkjufélagsins var þetta ár haldið að Garðar í Norður-Dakota, 30. Júní og næstu daga á eftir. Mættu þar auk prestanna tveggja, séra Jóns og séra Friðriks, 20 safnaða-fulltrúar. Tala safnaðanna í kirkjufélaginu var nú 14. Garðar-söfnuður og Víkur-söfnuður höfðu gengið formlega í félagið skömmu eftir ársfund 1885. Tveir nýir söfnuðir höfðu myndast á árinu: Frelsis-söfnuður í Argyle og Mikleyjar-söfnuður í Mikley í Nýja Íslandi, og höfðu þeir báðir gengið í kirkjufélagið. Þeir tveir Víðinessöfnuðir í Nýja Íslandi höfðu dregið sig saman í einn söfnuð og Park-söfnuður og Garðar-söfnuður höfðu sameinast. Séra Jón Bjarnason var endurkosinn formaður félagsins; því embætti gegndi hann samfleytt í 23 ár. Á þessu þingi var séra Friðrik J. Bergmann kosinn

varaformaður, og gegndi hann því embætti þar til árið 1899. Árið 1886 var reist kirkja í Pembina.

Þriðja ársþing kirkjufélagsins var haldið í húsi „Íslendingafélags"*) í Winnipeg og hófst 21. Júní 1887. Tala safnaðanna var nú orðin 15. Sendu 13 þeirra fulltrúa til þingsins. Tveir prestar og 24 fulltrúar sátu þingið. Tungár-söfnuður og Austur-Sandhæða-söfnuður í N.-Dakota höfðu á árinu sameinast og þar við bætzt hópur fólks af svo nefndum Vestur-Sandhæðum. Hinn nýi söfnuður nefndist Vídalíns-söfnuður. Umhverfis Hallson í N.-Dakota hafði myndast nýr söfnuður, Hallson-söfnuður. Rétt fyrir þing hafði og myndast Fjalla-söfnuður í N.-Dakota. Höfðu báðir þeir söfnuðir gengið í kirkjufélagið. Kirkjuleysið var jafn-bagalegt og áður. Tilfinnanlegastur var þó prestaskorturinn. Forseti kirkjufélagsins hafði falið forstöðumanni prestaskólans í Reykjavík að útvega presta til safnaða kirkjufélagsins. Séra Jens Pálsson, prófastur að Útskálum, hafði og fengið samskonar umboð frá forseta. En enginn árangur hafði orðið af þeirri málaleitan.

Skömmu eftir kirkjuþing 1887 bættust tveir prestar kirkjufélaginu. Í Júlímánuði það ár kom frá Íslandi séra Magnús J. Skaftasen og gerðist prestur safnaðanna í Nýja Íslandi, eftir ósk þeirra safnaða sjálfra. Var hann af forseta settur í prestsembætti það með embættisbréfi jafnskjótt og hann var kominn. Skömmu síðar kom kand. theol. Níels Steingrímur Þorláksson vestur um haf frá guðfræðisnámi við háskólann í Kristjaníu í Norvegi. Hafði hann fyrst komið til Ameríku á öndverðri landnámstíð Íslendinga (1873) og stundað nám við Luther College í Decorah. Nú kom hann aftur vestur samkvæmt ósk íslenzku safnaðanna í nýlendunni umhverfis Minneota í Minnesota til að gerast prestur þeirra safnaða. Var hann prestvígður af forseta kirkjufélagsins í kirkju Víkur-safnaðar sunnudag 21. Ágúst 1887, og gekk hann um leið inn í kirkjufélagið. En söfn-

*) Sama sem Framfarafélagsins, eins og það áður hét.

uðirnir í Minnesota stóðu enn fyrir utan kirkjufélagið. Engir nýir söfnuðir höfðu gengið í félagið, svo tala safnaðanna var söm og áður (15) á ársþingi kirkjufélagsins 1888. Var þing það haldið í kirkju Víkur-safnaðar að Mountain í Norður-Dakota. Mættu þar prestarnir fjórir og tuttugu og sex erindsrekar. Í ársskýrslu sinni skýrði forseti frá því, að á liðnu ári hefði Winnipeg-söfnuður komið sér upp vandaðri kirkju, og hafði hún verið vígð 20. Des. 1887. Kirkja Víkursafnaðar hafði verið endurbætt og var hún vígð þá á þinginu. Þá voru og kirkjur í smíðum hjá Garðarsöfnuði og Vídalíns-söfnuði.

Um þessar mundir [1888] byrjuðu árásir á íslenzka söfnuði, einkum í Winnipeg, af hálfu Presbýteríana og annarra ólúterskra kirkjudeilda. Var það mál tekíð til íhugunar á kirkjuþingi og starfsemi annarlegra kirkjufélaga meðal lúterskra Íslendinga mótmælt. Út af þessu varð til nýtt embætti í kirkjufélaginu. Var embættismaður sá nefndur English Corresponding Secretary, og skyldi hann hafa á hendi bréfaskifti fyrir hönd kirkjufélagsins við önnur kirkjufélög og einstaka menn. Var séra Friðrik J. Bergmann kosinn í það embætti.

Á tímabilinu milli þinga 1888—1889 bættust sjö söfnuðir í kirkjufélagið, og er þess einnig getið í skýrslum, að það ár hafi óvenjulega margt fólk gengið inn í söfnuði. Þannig höfðu 300 manns bæzt við söfnuðinn í Winnipeg, og hafði þó söfnuður sá legið undir stöðugri árás frá hinu svo nefnda presbýteríanska trúboði. Söfnuðir, sem við bættust á árinu, voru: Duluth-söfnuður í Duluth, Minn.; Victoria-söfnuður í Victoria, British Columbia; Þingvallanýlendu-söfnuður í Þingvallanýlendu í Assiniboia*); Brandon-söfnuður í Brandon, Manitoba; Þingvalla-söfnuður að Eyford í N.-Dakota; Víðines-söfnuður hafði skift sér í tvo söfnuði, Syðra og Nyðra Víðines-söfnuð, eins og áður hafði verið. Alls voru nú söfnuðirnir 22 talsins. Á ársþingi, er haldið var í Argyle-bygð í Manitoba 19. Júní 1899 og

*) Nú Saskatchewan.

næstu daga, mættu 3 prestar og 20 erindsrekar. Einn presturinn, séra Magnús J. Skaftasen, kom ekki á þing og 9 söfnuðir sendu enga fulltrúa. Á þessu ári var kirkja Garðar-safnaðar fullsmíðuð, en kirkja Vídalíns-safnaðar var enn ófullgjör. Söfnuðirnir í Argyle-bygð höfðu komið sér upp einni kirkju sameiginlega.

Á kirkjuþingi 1889 var meðal annars fjallað um trúboðsstarfsemi Presbýteríana og árásir þær hinar ógeðslegu, er kirkjufélagið lá undir. Skýrt var frá, að E n g l i s h C o r r e s p o n d i n g S e c r e t a r y, er kosinn var á þingi næsta á undan, hefði kröftuglega mótmælt tilraun þeirri til að tvístra Íslendingum trúarlega við yfirmenn Presbýteríana í Canada. Nú var og kosin nefnd manna til þess fyrir kirkjufélagsins hönd að mótmæla starfi þessu og verjast því.

Prestleysi safnaðanna var um þetta leyti sem tilfinnanlegast. Á kirkjuþingi var álitið nauðsynlegt að fá þegar 5 presta í viðbót við þá, sem fyrir voru. Svo miklu lét kirkjuþingið sig þetta varða, að það ákvað að senda forseta kirkjufélagsins til Íslands til þess að leitast við að fá þar presta til handa söfnuðunum. Samkvæmt fyrirmælum kirkjuþingsins ferðaðist forseti séra Jón Bjarnason til Íslands. Lagði á stað frá Winnipeg 27. Júlí 1889, og kom aftur 3. Febrúar 1890. Enginn verulegur árangur varð þó af ferðinni að því er snertir komu presta vestur. Hafði þó forseti nokkra von um, að tveir ungir guðfræðingar kynnu að koma vestur bráðlega. Af því varð þó ekki. Enda sannfærðist forseti kirkjufélagsins um það á Íslandsferðinni, að kirkjufélagið ætti ekki í framtíð að leita til Íslands að prestum. Þá er hann skýrir kirkjuþingi 1890 frá ferð sinni, kemst hann svo að orði: „Það er sannfæring mín, að sú guðfræðismentun, sem mönnum veitist heima á Íslandi, svari yfir höfuð ekki til þeirrar kröfu, sem kirkjulífið og kirkjubaráttan í þessu landi gjörir til þeirra manna, er eiga að vera leiðendur safnaðarmála vorra. Eg hygg, að það sé lífsspursmál fyrir kirkjufélag vort, að það fái sér

sem allra fyrst presta, er gengið hafa á guðfræðisskóla hér í landinu. Það þarf að fá unga og efnilega menn af vorum þjóðflokki til þess að ganga guðfræðisnáms-veginn á



N. B. Thorgrimsen

einhverjum góðum lúterskum skólum þessa lands, upp á það að þeir síðar taki til starfa sem prestar meðal síns eigin þjóðflokks hér í hinni amerikönsku dreifing". Þá stefnu

aðhyltist kirkjufélagið í prestsmálum sínum og hefir henni að mestu leyti verið fylgt í 20 ár.

Á meðan forseti kirkjufélagsins var í prestaleitinni á Íslandi kom kand. theol. Hafsteinn Pétursson vestur um haf frá Reykjavík. Hafði hann um hríð stundað guðfræðisnám við háskólann í Kaupmannahöfn, en tekið próf við prestaskólann í Reykjavík. Eftir áskorun safnaðanna í Argyle-bygð kom hann vestur til að gjörast prestur þeirra. Rétt eftir að forseti kom úr Íslands-ferðinni vígði hann kandídat Hafstein Pétursson til prests (9. Febr. 1890). Gekk hann þá þegar í kirkjufélagið.

Á árinu milli kirkjuþinga 1889 og 1890 var vígð kirkja Pembina-safnaðar og söfnuðirnir í Selkirk og Mikley höfðu reist sér kirkjur. 27. Júní 1890 var kirkjuþing haldið í samkomuhúsi Bræðrasafnaðar í Nýja Íslandi. Þar mættu 4 prestar og 29 erindsrekar safnaða. Tala safnaða innan kirkjufélagsins var söm og árinu áður—23. Duluth-söfnuður hafði liðið undir lok, en nýr söfnuður, Fljótshlíðarsöfn. í Nýja Íslandi, bæzt við. Á þingi þessu skýrði forseti frá, að dofnað hefði allmikið yfir trúboði Presbýteríana meðal Íslendinga. Aftur á móti höfðu nú Únítarar í Bandaríkjum hafið trúboð meðal Íslendinga í Winnipeg. Mótspyrna gegn kirkjufélaginu af hálfu vantrúarinnar hafði á þessu ári verið óvenjulega mikil.

Vorið 1891 gerðust þau tíðindi, að einn af prestum kirkjufélagsins, séra Magnús J. Skaftasen, og 4 söfnuðir, sem hann þjónaði í Nýja Íslandi, sögðu sig úr kirkjufélaginu. Hafði það um hríð verið á vitorði manna, að séra M. J. Skaftasen hafði horfið frá lúterskum trúarlærdómum og hallast meir og meir að kenningum Únítara, enda gekk hann síðar inn í þann trúarflokk og starfaði að útbreiðslu hans. Olli þetta mikilli kirkjulegri byltingu í Nýja Íslandi og varð kirkjufélaginu að miklu meini. Varð úr fráhvarfi séra Magnúsar og safnaða hans mál mikið á kirkjuþingi þetta ár. Fanst þinginu það ámælisvert, að presturinn hafði tekið að kenna gagnstætt trúarjátningu kirkjufélags-

ins, meðan hann enn var meðlimur þess og prestur lútersku safnaða. Kirkjuþingið fann það að úrgöngu safnaðanna, að þeir hefðu fært ýmist engar eða ógildar ástæður fyrir úrsögninni. Út af sundrung eins safnaðarins lýsti kirkjuþingið yfir því, að sá partur safnaðarins, sem héldi við safnaðarlögin, skoðaðist áfram í kirkjufélaginu og eignir safnaðarins heyrðu þeim parti til.

Kirkjuþing 1891 var haldið í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg og hófst 17. Júní. Þar voru viðstaddir allir (4) prestar kirkjufélagsins og 24 erindsrekar. Söfnuðir kirkjufélagsins voru þá 22 að tölu. Í stað þeirra 4, sem úr höfðu gengið, höfðu bæzt við 3 nýir söfnuðir: St. Páls-söfnuður í Minneota, Minn.; Marshall-söfnuður í Marshall, Minn.; og Spanish Fork-söfnuður í Utah. Á árinu höfðu kirkjur reistar verið í Mikleyjar-söfnuði, Gimli-söfnuði, Marshall-söfnuði, Grafton-söfnuði [Little Salt-söfn.], Victoria-söfnuði og Brandon-söfnuði.

Í Septembermánuði ferðaðist forseti kirkjufélagsins um Nýja Ísland í þeim tilgangi að kynna sér ástand safnaðanna þar og ef unt væri leiðrétta það, sem þar hafði farið afvega út af trúarbragða-óeirðunum þar. Einn söfnuður í viðbót við þá, sem áður voru úr kirkjufélaginu gengnir, Mikleyjar-söfnuður, sagði sig úr kirkjufélaginu. Í Selkirksöfnuði kom upp ágreiningur mikill út af kirkju safnaðarins. Söfnuðurinn var tvískiftur í trúmálum. Fylgdi annar partur kirkjufélaginu, en hinn hinni nýju stefnu séra M. J. Skaftasens. Í sjúkdóms-forföllum forseta heimsókti varaforseti, séra Friðrik J. Bergmann, söfnuðinn, hélt fund og lagði á úrskurð í deilumálinu. Úrskurður sá var staðfestur í einu hljóði á kirkjuþingi.

Á þessu ári ferðaðist séra Hafsteinn Pétursson til Þingvalla-nýlendu í Assiniboia og heimsókti söfnuðinn þar. Meðan hann dvaldi þar myndaðist nýr söfnuður í nýlendunni, er kallaði sig Lúters-söfnuð, og gekk hann þegar inn í kirkjufélagið. Söfnuðirnir voru því jafnmargir [22] í kirkjufélaginu og verið höfðu, þegar kom á kirkjuþing 1892.

Það var haldið í kirkju Garðar-safnaðar í N.-Dak., 24. Júní og dagana þar á eftir. Þá var og vígð kirkja Garðar-safnaðar af varaforseta, séra Fr. J. Bergmann. Séra Jón Bjarnason, forseti kirkjufélagsins, var sjúkur og gat ekki sókt þingið, og stýrði því varaforseti. 3 prestar voru á því þingi og 24 erindsrekar. Skýrði varaforseti frá því, að stórdeild lútersku kirkjunnar General Council hefði tekið að sér söfnuðinn í Spanish Fork, Utah, og trúboðann þar, hr. Runólf Runólfsson. Kirkjufélaginu hefði ekki verið unt að standa straum af því trúboði.

Til þess að unt væri að veita söfnuðunum meiri prestsþjónustu ákvað kirkjuþing þetta, að ráða tvo guðfræðisnemendur, þá Jónas A. Sigurðsson og Björn B. Jónsson, til aðstoðar prestunum yfir sumarmánuðina. Björn B. Jónsson prédikaði það sumar í Winnipeg og Argyle-bygð, meðan séra Hafsteinn Pétursson var í trúboðsferðum, en Jónas A. Sigurðsson í þeim Dakota-söfnuðum, er séra Friðrik J. Bergmann gat sízt náð til. Að loknu skólanámi á prestaskólanum lúterska í Chicago næsta vor tóku þeir aftur til starfs og voru báðir vígðir á kirkjuþingi 25. Júní 1893 af varaforseta kirkjufélagsins, séra Fr. J. Bergmann, í forföllum forseta, er þá lá enn sjúkur, Jónas A. Sigurðsson til safnaðanna í norður-hluta Dakota-nýlendunnar, en Björn B. Jónsson sem trúboði kirkjufélagsins.

Í Maí-mánuði 1893 var vígð kirkja safnaðarins í Brandon og um kirkjuþingsleyti það sumar kirkja Selkirk-safnaðar. Þingvalla-söfnuður kom sér upp kirkju að Eyford á þessu ári. Kirkjuþing var haldið í Winnipeg 23.– 27. Júní. Tala safnaða var þá 22. Einn smásöfnuður, Victoria-söfnuður, hafði á árinu gengið úr kirkjufélaginu, en við bæzt í hans stað Árnes-söfnuður í Nýja Íslandi. Á þessu þingi sátu 26 erindsrekar og 5 prestar. Séra Jón Bjarnason, forseti, var sjúkur, sem fyr var sagt. Á þinginu var ákveðið að kaupa til handa kirkjufélaginu og afnota síðar við væntanlega skólastofnun bókasafn, er átt hafði séra Eggert Ó.

Briem á Íslandi og nú bauðst til kaups fyrir hér um bil 300 dollara. Því fé var mestu skotið saman þar á þinginu.



Björn B. Jónsson

Ársþing kirkjufélagsins 1894 var haldið í Víkur-söfnuði að Mountain í N.-Dak. 26.—30. Júní. Söfnuðirnir voru þá 23; einn nýr, Péturs-söfnuður í Dakota, hafði myndast

á árinu. Allir prestar kirkjufélagsins, 6, og 25 erindsrekar sátu á þinginu.

Haustið 1894 [1. Sept.] gerðist séra Björn B. Jónsson prestur safnaðanna í Minnesota í stað séra N. Steingríms Þorlákssonar, sem þá flutti sig til Park River, N.-Dak., og þjónaði þar norskum söfnuðum um hríð.

Sumarið 1894 kom séra Oddur V. Gíslason frá Íslandi og gerðist prestur allra safnaðanna í Nýja Íslandi. Hann var settur inn í embætti sitt með forseta-bréfi frá 19. Júlí. Enn fremur tókst séra Oddur á hendur prestsþjónustu fyrir Selkirk-söfnuð.

Í Argyle í Manitoba höfðu söfnuðirnir verið prestlausir frá því séra Hafsteinn Pétursson hvarf þaðan á miðsumri 1893 og gerðist prestur Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg ásamt séra Jóni Bjarnasyni, sem þá var mjög bilaður á heilsu. Vorið 1895 sendu þeir söfnuðir köllunarbréf kand. theol. Þorkeli Ó. Sigurðssyni, er þá útskrifaðist frá hinum lúterska prestaskóla í Philadelphia. Hann tók köllun þeirri og var prestvígður á kirkjuþingi 30. Júní. En hann var þá bilaður að heilsu og komst aldrei til safnaða sinna. Hann dvaldi undir læknis hendi í Park River og andaðist þar 27. Des. sama ár. Eftir dauða séra Þorkels sneru Argyle-söfnuðir sér til ungs guðfræðings í Chicago, Jóns J. Clemens, og réðu hann til prestsþjónustu. Hann lauk burtfararprófi á prestaskólanum í Chicago um vorið og var vígður til Frelsis- og Fríkirkju-safnaðar á kirkjuþingi 1896 af forseta kirkjufélagsins, séra Jóni Bjarnasyni.

Fyrsti lúterski söfnuður í Winnipeg fól snemma á árinu 1894 öðrum presti sínum, séra Hafsteini Péturssyni, á hendur að gangast fyrir myndun nýs safnaðar í suðvesturparti Winnipeg-bæjar. Að áliðnu sumri myndaðist söfnuður og réð hann þegar séra H. Pétursson fyrir prest. Söfnuðurinn kom sér upp kirkju þegar um haustið og vígði séra H. P. hana 16. Des. Söfnuðurinn nefndi sig Tjaldbúðar-söfnuð, en kirkjan var látin heita „Tjaldbúð-

in". Búist var við því sem sjálfsögðu, að söfnuðurinn frá upphafi tilheyrði kirkjufélaginu. En söfnuðurinn ákvað að standa utan við kirkjufélagið, enda fráhverfðist séra H. P. nú meir og meir kirkjufélagið, kom ekki á næsta kirkjuþing, og 15. Júní 1896 sagði hann sig úr kirkjufélaginu.

Kirkjuþing 1895 var haldið í Pembina í N.-Dak. Á því sátu 6 prestar og 26 erindsrekar. Tala safnaðanna var 23. Hætt var þá að telja söfnuðinn í Spanish Fork í Utah, því General Council hafði algerlega tekið hann að sér. En Lincoln-söfnuður í Minnesota, sem áður hafði staðið utan kirkjufélagsins, gekk nú í kirkjufélagið. Kirkja Vídalíns-safnaðar hafði verið vígð rétt á eftir kirkjuþing 1894, og í smíðum var nú kirkja Fjalla-safnaðar.

Kirkjuþing 1896 var haldið í kirkju Frelsis- og Fríkirkju-safnaða í Argyle 25.—29. Júní. Voru þar prestarnir allir 7 og 28 erindsrekar. Tala safnaða var 24. Vesturheims-söfnuður í Minnesota hafði á árinu gengið í kirkjufélagið. Forseti gat um í ársskýrslu sinni, að ný kirkja hefði á árinu verið reist í St. Páls-söfnuði í Minneota, kirkjan í Selkirk verið endurbygð, kirkja Fjalla-safn. verið fullgerð, kirkja Argyle-safnaða fengið viðgerð og yrði vígð á þinginu, kirkjan í Grafton verið endurbætt og sömuleiðis kirkja Fyrsta lút. safn. í Winnipeg.

Ársþing kirkjufélagsins 1897 var haldið í kirkju St. Páls-safnaðar í Minneota, Minn., 24.—29. Júní. Sex prestar voru á þingi (allir nema séra O. V. Gíslason, sem ekki gat komið) og 27 erindsrekar. Söfnuðir, kirkjur og prestar í kirkjufélaginu eins og verið hafði árinu á undan. Prestarnir séra Jón J. Clemens, séra O. V. Gíslason og séra N. S. Þorláksson höfðu á árinu ferðast um all-margar prestlausar bygðir í trúboðs-erindum. Á árinu hafði ein kirkja verið vígð, kirkja Þingvalla-safn. á Eyford (9. Ág. 1896), og meðan stóð á kirkjuþingi þessu voru þrjár kirkjur vígðar: St. Páls-kirkja í Minneota, kirkja Vesturheims-

safnaðar og kirkja safnaðarins í Marshall. Voru þær allar vígðar af forseta kirkjufél. (séra J. Bj.) sunnud. 27. Júní.

Dagana 24.–29. Júní 1898 var ársþing kirkjufél. haldið í kirkju Fyrsta lút. safn. í Winnipeg. Séra Jónas A. Sigurðsson var fjarverandi á ferð um Ísland. Hinir prestarnir 6 voru viðstaddir og 32 erindsrekar. Tala safnaða var 24, er á þing komu, en á þingi bættist nýr söfnuður við, Melanktons-söfnuður í Mouse River í N.-Dak. Að trúboði í íslenzkum bygðum hafði verið all-mikið unnið á þessu ári. Séra J. A. Sigurðsson hafði farið trúboðsferðir til Mouse River, Nýja Íslands og Selkirk. Séra N. S. Þorláksson hafði ferðast um nýbygðirnar á vesturströnd Manitoba-vatns. Séra B. B. Jónsson hafði vitjað Íslendinga í Watertown, S.-Dak., Minneapolis og Duluth. Séra J. J. Clemens hafði heimsókt Pipestone-bygð í Manitoba, og hafði þar myndast söfnuður (Jóhannesar-söfn.), sem síðar gekk í kirkjufélagið. Séra O. V. Gíslason hafði ferðast til Keewatin í Ontario og Þingvallanýlendu í Assiniboia. Loks hafði stud. theol. Rúnólfur Marteinsson frá prestaskólanum í Chicago verið í þjónustu kirkjufélagsins frá því um vorið, og hafði hann unnið að trúboði í bygðunum umhverfis Manitoba-vatn. Hann var í þjónustu kirkjufélagsins það, sem eftir var sumars. Á næsta vetri lauk hann guðfræðisnámi á prestaskólanum og var vígður til prests af forseta kirkjufélagsins, séra J. Bjarnasyni, 7. Maí 1899.

Kirkjuþing 1899 var haldið að Hallson í N.-Dak. 23.—28. Júní. 6 prestar og 37 erindsrekar sóktu þingið. Forseti séra J. Bjarnason og varaforseti séra F. J. Bergmann voru fjarverandi í Íslandsferð. Þinginu stýrði séra N. S. Þorláksson, er nú var kosinn varaforseti. Því embætti hefir hann gegnt ávalt síðan. Söfnuðir voru nú 25. Jóhannesar-söfnuður í Pipestone-bygð bættist við á þinginu. Séra N. S. Þorláksson var nú orðinn prestur Selkirk-safnaðar. Að trúboði hafði unnið verið mikið á árinu. Séra J. Bjarnason hafði ferðast um Nýja Ísland, séra Fr. J.

Bergmann til bygðarinnar í Roseau, Minn., séra Björn B. Jónsson til Watertown, Minneapolis og Duluth, séra J. J. Clemens til Brandon og Pipestone, séra O. V. Gíslason til Þingvallanýl., Vatnsdalsnýl. og bygðanna við Manitobavatn, séra R. Marteinsson til Grunnavatns- og Álftavatnsbygða og alla leið til bygða Íslendinga í Alberta. Meðan stóð á kirkjuþingi (25. Júní 1899) voru vígðar kirkjur Hallson-safnaðar og Péturs-safnaðar, af varaforseta séra N. S. Þorlákssyni.

Ársþing sitt hélt kirkjufélagið í Selkirk, Man., 21.—25. Júní 1900. Allir prestarnir 8 viðstaddir og 31 erindsreki. Sex nýir söfnuðir gengu í kirkjufélagið á þinginu: Lúters-söfn. í Roseau, Guðbrands-söfn. í Manitoba, Alberta-söfn., Gimli-söfn., Breiðuvíkur-söfn., og St. Jóhannesar-söfn. í N.-Dakota. Sérstaklega mikil trúboðsstarfsemi hafði átt sér stað. Séra Rúnólfur Marteinsson hafði unnið alt árið sem farand-prestur kirkjufélagsins. Flestir hinna prestanna höfðu einnig farið trúboðsferðir. Kirkja Lincoln-safn. í Minnesota hafði verið vígð af forseta kirkjufélagsins 3. Des. 1899, og meðan stóð á þingi þessu (sd. 24. Júní) vígði forseti hina endurreistu kirkju Selkirksafnaðar.

Dagana 25.—30. Júní 1901 var haldið ársþing kirkjufélagsins á Gimli, Manitoba. Tala safnaðanna var þá 32. Hafði enginn nýr söfnuður bætzt við á árinu. Á þinginu gekk Geysis-söfn. í félagið. Hafði söfn. sá komið í stað Fljótshlíðar-safn. Fyrir hönd safnaðanna mættu 33 erindsrekar. 7 prestar sóktu þingið, en einn sá, er verið hafði prestur í kirkjufélaginu, séra Jónas A. Sigurðsson, kom ekki til þings. Hafði hann þá nýlega sagt öllum söfnuðum sínum upp þjónustu og ráðið við sig að hætta algjörlega við prestskap. Skömmu síðar fluttist hann alfarinn vestur á Kyrrahafsströnd, og hefir hann búið þar síðan. Nokkra prestsþjónustu hefir hann þó veitt íslenzku fólki vestur þar samfara því, sem hann hefir gegnt skrifstofustörfum í stjórnarþjónustu. Með bréfi til forseta kirkju-

félagsins, sagði séra Jónas sig formlega úr kirkjufél. síðar á árinu. Séra R. Marteinsson hafði verið trúboðs-prestur kirkjufélagsins fram að nýári og ferðast um prestlausar bygðir, en upp úr nýári gerðist hann fastur prestur safnaðanna í Nýja Íslandi. Flestir prestanna höfðu ferðast í trúboðserindum um bygðir þær, er enga fasta prestsþjónustu höfðu. En prestaskorturinn var mjög tilfinnanlegur.

Kirkjuþing 1902 var haldið að Garðar, N.-Dak. 21.—27. Júní. Bættust þar 2 nýir söfnuðir í kirkjufélagið, Konkordía-söfn. í Þingvallanýlendu og Árdals-söfn. í N.-Íslandi. Sömuleiðis kom nú til þings og gekk inn í kirkjufélagið að nýju séra Hans B. Thorgrímsen, sem góðan þátt hafði átt í stofnun kirkjufélagsins í fyrstu, en hafði dvalið meðal Norðmanna og öðru hvoru þjónað prestsembætti hjá þeim frá því rétt eftir að félagið myndaðist. Hann hafði nú tekið prestsköllun frá söfnuðum þeim í norðurparti Dakota-nýlendunnar, sem séra Jónas A. Sigurðsson hafði þjónað. Séra Jón J. Clemens hafði á árinu lagt niður prestskap hjá söfnuðunum í Argyle, verið farand-prestur í þjónustu kirkjufélagsins nokkurn hluta ársins, en nú hafði hann tekist fasta prestsþjónustu á hendur hjá ensk-lúterskum söfnuðum í Wisconsin. Séra Friðrik J. Bergmann hafði tekið að sér kennarastarf í umboði kirkjufélagsins við Wesley College í Winnipeg og hafði því ekki nema að litlu leyti getað þjónað söfnuðum sínum í Dakota um veturinn. Séra Björn B. Jónsson hafði ferðast fyrir áskorun kirkjufélagsins vestur að Kyrrahafi og vitjað Íslendinga í helztu bygðum þeirra þar. Séra O. V. Gíslason hafði unnið prestsverk í bygðunum við Manitoba-vatn og þar í grendinni. Hr. Gunnl. W. Johnson, guðfræðisnemandi frá prestaskólanum lúterska í Philadelphia, hafði í nafni kirkjufélagsins rekið trúboð í nokkrum íslenzkum bygðum, og var þess von nokkur, að hann að loknu námi gengi í þjónustu kirkjufélagsins, en svo hætti hann guðfræðisnámi og gekk inn í aðra lífsstöðu.

18.—24. Júní 1903 var kirkjuþing haldið i kirkju

safnaðanna í Argyle-bygð. Mættu þar 44 erindsrekar, 7 prestar kirkjufélagsins og 2 trúboðar. Á kirkjuþingi næsta á undan hafði verið ákveðið að ráða í þjónustu kirkjufélagsins kand. theol. Pétur Hjálmsson, sem veturinn þar á undan hafði lesið guðfræði í Chicago, en áður verið útskrifaður af prestaskóla Íslands í Reykjavík. Hann hafði og alt árið ferðast sem trúboði um bygðirnar prestlausu í nafni kirkjufélagsins. Meðan á þingi stóð, sd. 21. Júní, var hann prestvígður af forseta kirkjufélagsins, séra J. B., og var hann ráðinn sem trúboðsprestur fyrir komanda ár. Stud. theol. Kristinn K. Ólafsson, guðfræðisnemandi við prestaskólann í Chicago, tók um þetta leyti til starfs í kirkjufélaginu. Sumar þetta þjónaði hann söfnuðunum í suðurparti Dakota-nýlendu, sem séra Friðrik J. Bergmann hafði hætt að þjóna, er hann til fulls og alls tók að sér kennarastarfið. Forseti skýrði frá, að tvær kirkjur hefðu verið vígðar á árinu: kirkja Fjalla-safnaðar í N.-Dak. 22. Júní 1902, og kirkja Mikleyjar-safnaðar 14. Sept. 1902. Tveir söfnuðir nýmyndaðir, Swan River-söfnuður og Trinitatis-söfnuður, báðir í Manitoba, gengu í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1903, og voru söfnuðirnir þá 36 talsins. Á þingi þessu varð ágreiningur milli kirkjufélagsins og séra Odds V. Gíslasonar út af óvenjulegu lækningastarfi hans, sem þingið áleit ekki réttmætt. Leiddi það til þess, að séra Oddur sagði sig úr kirkjufélaginu með bréfi til forseta 24. Ágúst 1903.

Dagana 24.—30. Júní 1904 var tuttugasta ársþing kirkjufélagsins haldið í kirkju Fyrsta lút. safnaðar í Winnipeg. Söfnuðurinn hafði nú komið sér upp nýrri kirkju mjög veglegri, og var hún vígð á kirkjuþinginu sunnudaginn 26. Júní af forseta. 49 erindsrekar mættu á þinginu og 9 prestar. Tveir þeirra presta voru nýir. Séra Friðrik Hallgrímsson hafði komið frá Íslandi upp á prestsköllun Frelsis- og Fríkirkju-safnaða í Argyle og verið af forseta settur þar inn í prestsembætti 4. Okt. 1903. Kandídat Kristinn K. Ólafsson hafði lokið fullnaðarguðfræðisprófi á

prestaskólanum í Chicago og var af forseta prestvígður á kirkjuþinginu 26. Júní til safnaðanna í suðurparti Dakota-bygðarinnar. Á árinu hafði Lúters-söfnuður í Roseau, Minn., liðið undir lok sökum burtflutnings fólks úr því bygðarlagi. Tveir nýmyndaðir söfnuðir gengu í félagið: Ísafoldar-söfnuður í Dongola og Hóla-söfnuður í Tantallon. Voru söfnuðirnir þá 37. Séra Friðrik J. Bergmann hafði tekið að sér þjónustu Tjaldbúðar-safnaðar í Winnipeg ásamt kennarastarfinu. Trúboði kirkjufélagsins séra Pétur Hjálmsson hafði með góðum árangri starfað árið alt víðsvegar um bygðir. Konkordía-söfnuður og Breiðuvíkur-söfnuður voru að reisa sér kirkjur.

Kirkjuþing 1905 var haldið í St. Pálskirkju í Minneota, Minn., 22.—27. Júní. Prestarnir 9, 1 trúboði og 29 erindsrekar sátu á þinginu. Tveir söfnuðir gengu í félagið: Tjaldbúðar-söfnuður í Winnipeg og Furudals-söfnuður í Pine Valley, Man. Söfnuðirnir þá orðnir 39. Tvær kirkjur höfðu komið upp á árinu í Þingvalla-nýlendu. Sömuleiðis hafði Víðines-söfnuður í Nýja Íslandi reist sér kirkju. Trúboðsprestur kirkjufélagsins, séra Pétur Hjálmsson, hafði starfað sem að undanförnu, og hr. Jóh. Bjarnason, sem nú stundaði guðfræði í Chicago, hafði um vorið unnið að trúboði í umboði kirkjufélagsins og var hann á þinginu ráðinn til þess starfs áfram yfir sumarið.

21.—27. Júní 1906 var haldið ársþing að Mountain í N.-Dak. Mættu þar prestarnir allir [9] og trúboðinn Jóhann Bjarnason, svo og 36 erindsrekar. Tala safnaða var í byrjun þings 38, því Jóhannesar-söfnuður í Dakota hafði hætt að vera til sökum burtflutnings fólks af þeim stöðvum. Nýr söfnuður, Kristnes-söfnuður í Sask., gekk í félagið á þinginu. Séra Pétur Hjálmsson hafði nú tekið köllun frá söfnuðinum í Alberta og sezt þar að, en þó farið trúboðsferðir fyrir kirkjufélagið. Þeir guðfræðisnemendur Jóhann Bjarnason og Runólfur Fjeldsted voru þegar teknir til trúboðsstarfs yfir sumarið. Var einnig á þinginu ráðinn til

þess verks hr. Carl J. Ólson, nemandi við Gustavus Adolphus College í St. Peter, Minn.

Ár 1907, dagana 20.—25. Júní, var kirkjuþing haldið í kirkju Tjaldbúðar-safnaðar í Winnipeg. Prestarnir voru þar allir viðstaddir nema séra Pétur Hjálmsson og 44 erindsrekar, svo og féhirðir og trúboðarnir. Á þinginu gengu fjórir nýir söfnuðir í kirkjufélagið: Lundar-söfnuður í Álftavatns-bygð, Vatna-söfnuður og Quill Lake-söfnuðir í Saskatchewan og Edmonton-söfnuður í Alberta. Voru þá söfnuðirnir 43. Trúboðsstarf hafði verið rekið af þeim stud. theol. Jóh. Bjarnasyni, stud. theol. Runólfi Fjeldsted og hr. C. J. Ólson. Voru þeir ráðnir til þess verks yfir sumarið, svo og stud. theol. Sigurður S. Christopherson, Hjörtur J. Leó og Guttormur Guttormsson. Sumir prestanna höfðu á liðnu ári farið trúboðsferðir. Söfnuðurinn við Markerville í Alberta hafði komið sér upp kirkju, og í smíðum voru kirkjur hjá Gimli-söfn. og Bræðra-söfn.

Ársþing kirkjufélagsins 1908 var haldið í kirkju safnaðarins í Selkirk 19.—24. Júní. Allir prestar kirkjufél. mættu á þinginu, 48 erindsrekar, féhirðir og 2 trúboðar. Tveir nýir prestar bættust við á þessu þingi: séra Jóhann Bjarnason og séra Runólfur Fjeldsted. Höfðu þeir báðir útskrifast frá prestaskólanum lúterska í Chicago um vorið. Séra Jóh. Bj. hafði fengið prestsköllun frá söfnuðunum í norðurparti Nýja Íslands, og verið vígður af forseta kirkjufélagsins, séra Jóni Bjarnasyni, 17. Maí. Séra R. Fj. hafði verið vígður af forseta 14. Júní upp á prestköllun til hans frá söfnuðum í Saskatchewan. Nýr söfnuður, Immanúels-söfnuður í Baldri í Argyle-bygð, gekk í félagið. Söfnuður sá hafði komið sér upp kirkju á árinu, og hafði hún verið vígð af forseta kirkjufélagsins 24. Nóv. Fjórir guðfræðisnemendur, H. J. Leó, G. Guttormsson, Sig. Christopherson og Carl J. Ólson, voru ráðnir í þjónustu félagsins sumarlangt.—Á þessu þingi urðu forseta-skifti í kirkjufélaginu. Séra Jón Bjarnason, sem frá upphafi hafði verið forseti, skoraðist undan endurkosningu, og var þá séra

Björn B. Jónsson kosinn forseti kirkjufélagsins og hefir verið það síðan.

Kirkjuþing 1909—hið 25.—var haldið í kirkju Fyrsta lúterská safnaðar í Winnipeg 24.—30. Júní. Á þinginu sátu 14 prestar, 64 erindsrekar og féhirðir kirkjufélagsins. Í kirkjufélagið gengu á þinginu Ágústínus-söfn. og Foam Lake-söfn. í Sask. Var þá safnaðatalan 46. Þrír prestar bættust við á þessu þingi. Séra Hjörtur J. Leó hafði verið útskrifaður af prestaskólanum í Chicago um vorið. Prests-köllun hafði hann fengið frá söfnuðunum í Þingvalla-nýlendu og verið vígður til prests í St. Páls-kirkju í Minneota af forseta kirkjufélagsins 2. Maí. Á kirkjuþingi sunnudag 27. Júní vígði forseti kirkjufélagsins þá Guttorm Guttormsson og Sigurð S. Christopherson, sem nú komu báðir að loknu námi frá prestaskólanum í Chicago og ráðnir voru á þinginu sem trúboðs-prestar kirkjufélagsins. Skömmu eftir kirkjuþing, 4. Júlí, vígði forseti kirkjufélagsins kirkjur Konkordía-safn. og Þingvalla-nýlendu-safn. í Sask.

Á kirkjuþingi 1909 varð ágreiningur mikill út af tvenskonar trúmálastefnum, sem innan kirkjufélagsins höfðu staðið andspænis hvor annari hin síðari ár. Séra Friðrik J. Bergmann hafði gerst talsmaður nýrrar guðfræðisstefnu og haldið henni fram í tímariti, er hann hafði haldið úti nokkur ár. Hafði deila all-alvarleg staðið milli tímarits þessa, er „Breiðablik" nefnist, og málgagns kirkjufélagsins, „Sameiningarinnar". Á nokkrum síðari kirkjuþingum, þó einkum tveim hinum síðustu, hafði ágreiningur þessi komið mjög berlega fram. Hin nýja stefna hélt fram ólíkum skoðunum á guðs orði heilagrar ritningar og á gildi hinna kirkjulegu trúarjátninga við það, er verið hafði frá upphafi lögbundið í kirkjufélaginu. Var nú ágreiningur þessi tekinn til alvarlegrar íhugunar á kirkjuþingi. Þar til skipuð nefnd manna gerði ítarlega tilraun til þess að komast að einhverri þeirri niðurstöðu, sem við mætti una, svo endir gæti orðið á deilunni. En er starf nefndarinnar varð árangurslaust, lögðu hvorirtveggja flokkarnir fram tillögur til þingssam-

þyktar, og náði sú fram að ganga, er mótmælti hinni nýju stefnu, en sú var feld, er jafnréttar krafðist fyrir hvorartveggja kenningarnar innan kirkjufélagsins. Gekk þá séra Friðrik J. Bergmann af þingi og all-margir erindsrekar. Þingið útskýrði sjálft þingsályktan þá, er gerð var, á þann hátt, að með henni væri engum vikið úr kirkjufélaginu. Sömuleiðis lýsti það yfir því, að sæti á þinginu ættu allir, jafnt eftir sem áður.

Af þessum ágreiningi leiddi það, að séra Friðrik J. Bergmann sagði sig úr sambandi við kirkjufélagið með bréfi til embættismanna kirkjufélagsins 3. Ágúst 1909, og var úrsögn hans tekin gild. Síðan á kirkjuþingi hafa sex söfnuðir sagt sig á formlegan hátt úr kirkjufélaginu: Tjaldbúðar-söfnuður, Garðar-söfnuður, Alberta-söfnuður, Quill Lake-söfnuður, Vatna-söfnuður og Víkur-söfnuður. Út af úrgöngunni skiftist Garðar-söfnuður í tvent. Gekk minni hlutinn þar úr söfnuði og myndaði nýjan söfnuð, sem nefnist Lúters-söfnuður og ákveðinn er að ganga inn í kirkjufélagið. Tilkynning hafa embættismenn kirkjufélagsins einnig fengið um úrgöngu-samþyktir í Foam Lake-söfnuði og Pembina-söfnuði, en með því vafasamt virðist, hvort úrsagnir þær sé formlegar, hafa þær ekki verið teknar gildar af stjórn kirkjufélagsins, og bíða úrskurðar kirkjuþings.



N. S. THORLAKSON



JON BJARNASON.



J. A. SIGURÐSSON



HAFST. PJETURSSON



H. B. THORGRIMSEN



O. V. GISLASON



B. B. JONSSON



FR. J. BERGMANN



P. SIGURÐSSON



M. SKAPTASEN



K. K. ÓLAFSSON



J. J. CLEMENS



H. J. LEÓ



JÓH. BJARNASON



R. MARTEINSSON



S. S. CHRISTOPHERSON



R. FJELDSTED



P. HJÁLMSSON



G. GUTTORMSSON



FR. HALLGRÍMSSON

AÐAL-STARF kirkjufélagsins hefir að sjálfsögðu verið trúboð meðal Íslendinga í Vesturheimi, og hefir trúboð það verið í því fólgið að senda út presta og trúboða til að prédika kristindóm, mynda söfnuði og koma föstu skipulagi á kirkjulega starfsemi í bygðunum. Frá því verki er skýrt í þættinum hér næst á undan. Trúboðs-starfið var milli kirkjuþinga undir umsjón forseta kirkjufélagsins eins, þar til á ársþingi 1906, er sérstök heimatrúboðs-nefnd var kosin til þess að hafa það mál með höndum. Til þess að standa straum af því starfi hafa söfnuðir kirkjufélagsins á ári hverju af frjálsum vilja lagt til fé, og hafa „offur" þau í heimatrúboðssjóð verið borin fram í söfnuðunum í sambandi við minning siðbótarinnar lútersku, sem árlega er haldið á lofti með sérstökum guðsþjónustum sem næst 31. Október.

**Trúboð.**

Þegar á fyrsta ársfundi kirkjufélagsins var mál um útgáfu kirkjulegs tímarits tekið til meðferðar. Sá, sem tillögu um það fyrirtæki bar fram á því þingi, var hr. B. L. Baldwinson. Útgáfa blaðsins var þegar ráðin og menn voru kosnir til að standa fyrir útgáfunni. „Sýnishorn" hins fyrirhugaða blaðs kom út í Desember 1885, en göngu sína hóf blaðið til fulls og alls í Marz 1886. Var það ein örk að stærð og kom út einu sinni í mánuði. Blaðið var nefnt Sameiningin. Séra Jón Bjarnason hefir frá upphafi verið og er enn ritstjóri blaðsins. Sameiningin hefir komið út reglulega og stendur nú yfir 25. árgangur hennar. Stækkað hefir hún, svo nú er hún tvær arkir heilar í mánuði, og hefir sú verið stærð blaðsins síðan það var tvítugt eða í Marz 1906.

**Tímarit.**

Árið 1891 byrjuðu prestar kirkjufélagsins að gefa út ársrit, er nefndist Aldamót. Flutti það fyrirlestra frá kirkjuþingum og margt fleira kirkjulegs og bókmentalegs efnis. Ritstjóri Aldamóta var séra Friðrik J. Bergmann. Aldamót komu út á hverju ári þar til 1904.

Snemma á þingum var farið að ræða nauðsyn þess að gefa út barnablað, og er sunnudagsskólum tók að fjölga, varð þörf á sunnudagsskóla-blaði auðsæ. Á kirkjuþingi 1897 var ráðin útgáfa slíks blaðs. Byrjaði svo blaðið að koma út á jólaföstu það ár, ein örk á mánuði hverjum. Blaðið nefndist Kennarinn, og var séra Björn B. Jónsson ritstjóri. Beinlínis var Kennarinn ekki gefinn út á kostnað kirkjufélagsins, heldur kostuðu tveir menn í Minneota útgáfuna: Gunnar B. Björnsson og S. Th. Westdal. Eftir 4 ár hætti Kennarinn að koma út sem sérstakt blað, en var eftir það um hríð gefinn út í smærri stýl sem fylgiblað Sameiningarinnar, og annaðist þá séra N. Steingrímur Þorláksson ritstjórnina. En er hætt var við það fyrirkomulag, var Sameiningin stækkuð að mun og stofnuð þar deild með lesmáli fyrir börn; var deild sú nefnd Börnin, og annaðist séra N. S. Þorláksson þá deild blaðsins meðan það fyrirkomulag hélzt.

Annað ársrit stofnaði kirkjufélagið 1905, og hefir það komið út árlega síðan. Heitir það Áramót og flytur tíðindi og fyrirlestra frá kirkjuþingum og fleira. Ritstjóri þess hefir verið séra Björn B. Jónsson, en við fyrsta árið var þó séra Rúnólfur Marteinsson með honum við það verk.

Árið 1908 fór unglingablaðið Framtíðin að koma út, og hefir það síðan verið gefið út í tvö ár að tilhlutun kirkjufélagsins og bandalaganna. Séra N. S. Þorláksson hefir verið ritstjóri.

Frá því á fyrsta ársþingi hefir kirkjufélagið haft sunnudagsskóla-starfsemina til meðferðar. Var frá upphafi augljóst, að sunnudagsskólar væri lífsskilyrði fyrir söfnuðina. En með því flestu fólki var starf það lítt kunnugt, leitaðist kirkjufélagið við að leiðbeina söfnuðunum og styrkja þá til að koma upp sd.skólum. Flutti „Sam." löngum lexíur fyrir sd.skóla, þar til sd.skólarnir fengu sér-

**Sunnudagsskólar.**

stakt málgagn (Kennarann). Nefnd hefir verið af kirkjuþingi skipuð til að stýra þeirri starfsemi. Hefir hún gefið út myndaspjöld með lesmáli (Ljósgeisla) til notkunar í sd.skólum. Í sambandi við kirkjuþing 1900 var haldið sérstakt þing fyrir kennara og starfsmenn sunnudagsskólanna í söfnuðunum. Hafa slík fundahöld átt sér stað árlega upp frá því.

**Bandalög.** Náskyld sunnudagsskólunum eru ungmennafélög safnaðanna. Mál um þá starfsemi hefir kirkjufélagið um mörg ár haft til meðferðar. Í einstökum söfnuðum mynduðust snemma ungmennafélög til kristilegrar starfsemi. Á kirkjuþingi 1897 voru 6 slík félög orðin til. Var nú farið að tala um að sameina þau í allsherjar bandalag innan kirkjufélagsins. Í sambandi við kirkjuþing 1898 var haldið sérstakt bandalagsþing. Mættu þar 15 fulltrúar frá 7 safnaða-bandalögum. Var þá myndaður félagskapur hinna sameinuðu bandalaga, sem haldið hefir ársþing sitt í sambandi við kirkjuþing ávalt síðan. Hefir félögum þeim fjölgað ár frá ári, og hafa þau gengist fyrir margvíslegum störfum í söfnuðunum:

**Bindindi.** Frá fyrst til síðast hefir kirkjufélagið látið sér umhugað um bindindismál. Á mörgum kirkjuþingum hefir mál það verið rætt, og bindindis-starfsemi verið veitt fylstu meðmæli. Hvatt hefir verið til bindindissamtaka í söfnuðunum og ráðstafanir til þess gerðar, að bindindis-prédikanir væri fluttar á ákveðnum tímum. Sömuleiðis hefir verið stuðlað að því, að ungmennafélögin taki það mál að sér og í sunnudagsskólum sé kent um skaðsemi áfengis.

**Skólamál.** Þegar á öðru ársþingi kirkjufélagsins var hrundið af stokkum málinu um stofnun íslenzks skóla. Frumkvöðull þess fyrirtækis var séra Jón Bjarnason. Lagði hann þá fram 100 doll. gjöf frá sjálfum sér með þeim ummælum, að það skyldi vera vísir til

sjóðs, er safnað skyldi til þess, að standa straum af íslenzkri mentastofnun, er kirkjufélagið ætti. Tók félagið fé þetta til varðveizlu, og er fram liðu stundir, jók það sjóðinn meir og meir árlega. Á kirkjuþingi 1890 var ákveðið að byrja þegar á næsta hausti kenslu í smáum stýl. Var hinn fyrirhugaði skóli miðaður við A c a d e m y-skóla hérlenda og búist við þriggja ára námsskeiði. Skóli þessi átti að byrja undir umsjón forseta kirkjufélagsins, séra Jóns Bjarnasonar, og var búist við, að til bráðabirgða fengist tímakensla að mestu ókeypis. Framkvæmd fyrirtækis þessa fórst þó fyrir, aðallega fyrir þá sök, að séra Jón Bjarnason varð fyrir heilsubilun um haustið, svo hann jafnvel ekki gat lengst af tvö næstu árin gegnt prestsembætti sínu. Liðu svo tíu ár, að ekki varð af neinni verklegri framkvæmd. Þó var á þeim árum safnað allmiklu fé í skólasjóð, einkum haustið 1896, er séra Jónas A. Sigurðsson ferðaðist um bygðirnar til að safna fé í þann sjóð. Á kirkjuþingi 1896 kom fram tilboð frá bænum Crystal í Pembina County í N.-Dak. um tillag, er næmi 2000 doll., og 6 ekrur lands, ef skólinn yrði þar reistur. Á næsta þingi bauð bærinn Park River í N.-Dak. 10 ekrur í jörð og 4000 doll. til þess að skólinn yrði þar settur á stofn. Urðu skoðanir manna skiftar um það, hvar skólinn skyldi reistur. Ákveðið var þó á þingi 1898, að skólanum skyldi ætlað heimili í Winnipeg, þó með því skilyrði, að íbúar Canada aðrir en Íslendingar veittu skólanum fjárstyrk ekki minni en 6000 doll. og legðu til ókeypis skólastæði. Því skilyrði var ekki fullnægt.

Árið 1900 breyttist stefna skólamálsins. Tilboð kom þá til þings frá G u s t a v u s A d o l p h u s C o l l e g e í St. Peter, Minn., skóla Águstana-sýnódunnar sænsk-lútersku, um að kirkjufélagið stofni íslenzkt kennaraembætti við þann skóla og beini svo straumi íslenzkra námsmanna þangað. Þingið þá tilboðið og kaus séra Friðrik J. Bergmann til kennara. En er til kom, náðu samningar ekki fram að ganga. Á næsta þingi var sam-

þykt með meira hluta atkvæða að koma upp íslenzku kennara-embætti við Wesley-skóla í Winnipeg, tilheyrandi kirkjufélagi Meþódista. Var séra Friðrik J. Bergmann ráðinn til þess embættis, og byrjaði sú kensla þá um haustið (1901). Fékk síðan skólanefnd kirkjufélagsins því til leiðar komið, að íslenzka varð löglega viðurkend námsgrein í undirbúningsdeildum og tveim lægri bekkjum College-skólanna í Manitoba. Hélst samband þetta við Wesley-skólann þar til 1909.

Í annan stað var haldið áfram málaleitan við Gust. Ad. College í St. Peter um stofnun annars kennara-embættis þar. Komst það og á haustið 1905; var þar ráðinn kennari hr. Magnús Magnússon frá Reykjavík, og gegndi hann því embætti þar til vorið 1909.

Á kirkjuþingi því, er haldið var í Selkirk í Júní 1908 var í einu hljóði samþykt að leggja niður bæði kennara-embættin að ári liðnu. Kennara-embættið við Gust. Ad. College þótti ekki borga sig, þar sem svo fáir nemendur fengust þangað. Aftur á móti hafði aðsókn verið all-mikil að Wesley College. En bæði var það, að ýmsir í kirkjufélaginu voru óánægðir með það, að skólafyrirtæki kirkjufélagsins væri í sambandi við ólúterska mentastofnun, og í annan stað ágreiningur orðinn í trúarefnum milli kennarans og meira hluta kirkjufélagsins, og þótti þá líklegast til samkomulags, að hætt væri við kennara-embættið. Fyrirkomulag þetta hafði aldrei verið ætlað nema til bráðabirgða, og var því hvað eftir annað lýst yfir á kirkjuþingum, að kirkjufélagið héldi eigi að síður fast við uppruna-lega hugmynd um sjálfstæðan kirkjufélags-skóla. Upphæð skólasjóðs var á síðasta þingi (1909) $7,466.82.

**Guðsþjónustu-form.**

Að því hefir kirkjufélagið lengi unnið að koma á sameiginlegu guðsþjónustu-formi í söfnuðum sínum, leggja til um helgisiði og gefa út fyrirmyndar-lög fyrir söfnuðina. Komu frá kirkjuþingum tíðum bendingar í þá átt. Prestafélaginu var falið

að semja tíðareglur og lauk félagið því verki loks árið 1909. Var það guðsþjónustu-form lagt fyrir kirkjuþing og samþykt þar.

**Samband við General Council.**

Á kirkjuþingi 1897 var fyrst hreyft því máli, að kirkjufélagið gengi inn í kirkjufélaga-samband það, er nefnist General Council. Bar það mál fram séra Friðrik J. Bergmann. Var svo að orði kveðið, að Gen. C. væri einmitt sú deild lútersku kirkjunnar hér í landi, sem vér fyrir allra hluta sakir stöndum næstir og skoðum oss í mestum andlegum skyldleika við. Lá mál þetta fyrir einu kirkjuþingi eftir annað. Þótt ekki hafi orðið af því, að kirkjufélagið gengi formlega í sambandið, hefir því þráfaldlega verið lízt yfir með kirkjuþings-samþyktum, að það að sjálfsögðu lægi fyrir. Kirkjufélagið hefir notið vináttu-sambands við stórdeild þessa öðrum fremur. Kjörnir fulltrúar þess félags hafa nokkrum sinnum mætt á kirkjuþingum og sent hefir kirkjufélagið oftar en einu sinni sinn fulltrúa á þing General Councils. Á skólum þess félags hafa flestir prestar kirkjufélagsins verið mentaðir. Sunnudagsskóla-rit þess hafa notuð verið í allmörgum sd.skólum kirkjufélagsins.

**Heiðingja-trúboð.**

Á síðari árum hefir komið fram vaxandi áhugi fyrir því að kirkjufélagið taki einhvern þátt í trúboði meðal heiðingja. Kom það mál fyrir kirkjuþing fyrst 1904. Hefir nefnd manna síðan haft það mál til meðferðar milli þinga. Kirkjufélagið hefir gengist fyrir því, að sérstakar guðsþjónustur út af kristniboðs-skyldunni sé haldnar í söfnuðunum einu sinni á ári. Frjálsra fjárframlaga til þessa fyrirtækis hefir á síðustu árum verið leitað hjá söfnuðunum við guðsþjónustu einhverja á langaföstu. Tvö síðustu ár hefir kirkjufélagið kostað til náms tvo drengi Hindúa í kristniboðsskóla tilheyrandi General Council í Rajahmundry á Ind-

landi. Heiðingja-trúboðssjóður kirkjufélagsins er nú um 2 þús. doll. Búist er við, að það verði einn þáttur hátíðarhaldsins á 25 ára afmæli kirkjufélagsins, að byrja með því fé verklega hluttöku í kristniboði meðal heiðingja.

Stór þáttur kirkjufélags-starfsins hafa kirkjuþingin sjálf verið og fyrirlestrar þeir, sem þar hafa haldnir verið og umræður þær, er þar hafa átt sér stað um andleg mál. Hér skulu nefndir hinir helztu fyrirlestrar, sem fluttir hafa verið á ársþingum, og höfundar þeirra:

**Fyrirlestrar o.fl.**

Séra Jón Bjarnason: Ísland að blása upp; Íslenzkur nihilismus; Um vatnsveitingar; Það, sem verst er í heimi; Það, sem mest er í heimi; Forlög; Eldur og eldsókn; Út úr þokunni; Mótsagnir; Þrándur í Götu; Að Helgafelli; Helgi hinn magri; Gildi trúarjátninga; Apologia pro vita sua.

Séra Friðrik J. Bergmann: Vor kirkjulegi arfur; Lífsskoðanir; Gildi gamla testamentisins; Sársaukinn í lífinu; Teikn tímanna; Hugsjónir; Filippus Melankton; Quo vadis? Bókstafurinn og andinn; Kristsmynd úr íslenzkum steini; Postulleg stefnuskrá.

Séra N. Steingr. Þorláksson: Guðdómur drottins vors Jesú Krists; Kristur og gamla testamentið; Hvað viljum vér? Hvað er sannleikur? Af hverju kemur það, að svo margir eru vantrúaðir? Steinar; Merkjalínur; Hættan mesta.

Séra Hafsteinn Pétursson: Jóhannes Chrysostomus; Eilíf vansæla; Charles Haddon Spurgeon.

Séra Björn B. Jónsson: Guðs orð; Guðlegur innblástur heilagrar ritningar; Straumar; Íslenzk óbilgirni; Hin postulega trúarjátning.

Séra Jónas A. Sigurðsson: Réttlætingin af trúnni.

Séra Hans B. Thorgrímsen: Guðs orð.

Séra Kristinn K. Ólafsson: Sókn og vörn; Gildi heilagrar ritningar.

Séra Friðrik Hallgrímsson: Jesús Kristur guðmaðurinn.

Séra Rúnólfur Marteinsson: Kristindómurinn og skynsemin.

Séra Runólfur Fjeldsteð: Hærri „Kritíkin".

Á flestum kirkjuþingum hafa farið fram opinberar umræður um tímabær kirkjuleg eða þjóðernisleg áhugamál.

B. B. J. og Fr. Fr.



# Tvær æfiminningar.

## PÁLL ÞORLÁKSSON.

Árið 1849 var séra Páll Þorláksson fæddur í Húsavíkur kauptúni í Þingeyjarsýslu á Íslandi 13. Nóvember, sonur þeirra hjónanna Þorláks G(unnars) Jónssonar og Lovísu Níelsdóttur. Þorlákur en enn á lífi hér vestra, en kona hans andaðist í Selkirk, Man., 26. Júlí 1901. Alls eignuðust þau níu börn, sex syni og þrjár dætur, sem öll komust á fullorðins aldur, og hafa flest systkinanna lengst af átt heima í vesturbygðum vorum, þótt öll væri þau á Íslandi fædd; en þrjú þeirra eru nú dáin. Þorlákur var skrifari hjá Sigfúsi Schulesen, sýslumanni Þingeyinga, er Páll sonur hans fæddist. En á öðru ári þar frá fluttu hjónin sig búferlum að Stórutjörnum í Ljósavatnsskarði, og 1865 þaðan að Krossi í sömu sveit. Í latínuskólann í Reykjavík kom Páll að hausti 1866. Undir skólagönguna þar bjó hann síðast Þorkell Bjarnason, síðar prestur á Reynivöllum í Kjós, sem um hríð kendi drengjum nokkrum að Hálsi í Fnjóskadal, og þar á meðal honum, það, sem þurfti til þess þeir gæti fengið inngöngu í Reykjavíkurskóla. Áður höfðu þeir séra Jón Austmann og séra Gunnar Gunnarsson sagt honum til. Var Páll svo vel undir skólann búinn, að hann settist í annan bekk, og gat því lokið hinu fyrirskipaða námi í skólanum á fimm vetrum. Hann var frá upphafi mjög kappsamur við námið og vanst honum það einkar vel, því að nokkurn veginn jafn-tækur var hann á alt, sem í skóla var þá stund lögð á. Af skólabræðrum sínum varð hann einna samrýndastur Guðmundi Jónssyni frá Mýrarhúsum á Seltjarnarnesi, sem að öllu var ágætlega gefinn, en lézt nýútskrifaður úr skóla öllum, er honum höfðu kynnst, til mikils harms. Þeir Páll voru sambekkingar og fylgdust jafnan að. Báðir tóku þeir burtfararpróf í ensku og frakknesku, sem ekki tíðkaðist um þær mundir, þótt lærisveinar fengi nokkra nasasjón í þeim tungumálum; en þeir tvímenningar voru einnig í þeim greinum óvenjulega vel að sér, er þeir tóku stúdents-próf. Þá tóku þeir og upp á því síðasta árið, sem þeir voru í skóla, að beiðast einnig tilsagnar í hebresku. Samkvæmt skólareglugjörðinni gátu nemendur krafist þess, að þeim væri kennd fyrsta stöfun í því tungumáli þar í skólanum; en það leyfi var þá fyrir löngu orðið dauðr bókstafr. Í reyndinni dó

hebreskunám út á Íslandi um leið og hinn almenni mentaskóli landsins var fluttur frá Bessastöðum til Reykjavíkur. Nýlunda þótti það því eigi lítil, er þeir félagar veturinn 1870—71 fóru að læra hebresku í Reykjavíkur-skóla. Gísli Magnússon, einn af kennurum skólans, bráðskarpur málfræðingur, tók það að sér að veita þessa sérstöku tilsögn, og hafði þó naumast neitt átt við hebresku-nám síðan hann fyrir löngu var nemandi í Bessastaðaskóla. Tilsögn þá veitti hann heima hjá sér, en ekki í skólahúsinu. Fyrir nokkru var eg þá kominn úr skóla og jafnvel prestvígður; engu að síður tók eg,



Séra Páll Þorláksson

með þeim félögum ofur lítinn þátt í námi þessu undir leiðsögn Gísla Magnússonar, og er mér því vel um þetta kunnugt. Aldrei varð þó neitt af prófi upp úr hebresku-námi þessu, enda náði það ákaflega skamt svo sem að sjálfsögðu. Að þeir félagar fóru að eiga einnig við þetta fornaldar-tungumál stafaði ef til vill að eins af því, að þeir voru samhuga um að afla sér eins víðtækrar fræðslu og tækifæri var frekast til; að því er Pál snertir er þó ekki neitt ósennilegt, að hann hafi hugsað, að fyrir sér kynni síðar að liggja guðfræðanám til undirbúnings kirkjulegu kennimannsstarfi, og gæti það

þá komið sér vel að hafa áður aflað sér þekkingar á allra fyrstu undirstöðu hebreskrar tungu. Þetta verður enn sennilegra, ef hann, sem hér er nú að halda, hefir svo snemma verulega verið farinn að hugsa til vesturfarar og framtíðarvistar fyrir sig í heimsálfu þessarri. Úr Reykjavíkur-skóla var hann útskrifaður 1871, og ekki leið heilt ár frá því þar til hann í hópi nokkurra annarra Íslendinga í blóma og broddi lífsins réðst til ferðar vestur um haf til þess í bókstaflegum skilningi, en þó einkum í andlegum skilningi, að nema land hér í nýjum heimi.

Páll Þorláksson var fær í flestan sjó, er hann kom hingað vestur heiman frá Íslandi, og því flestum útlendingum líklegri til að hafa sig vel áfram hér í Vesturheimi. Skólagengnir menn, er hingað koma, eiga margir býsna ervitt með að samþýðast þjóðlífsháttum hér, og kunna ekki að meta hið marga, sem þetta land hefir sér til ágætis fram yfir það, er þeir hafa áður vanist heima fyrir. Hinn ungi Íslendingur, sem hér er um að ræða, var laus við alla slíka hleypidóma, er hann kom vestur; var fyrirfram ákveðinn í því að verða hér sem fyrst innlendur, til þess búinn að nota sér sem bezt tækifærin, er til þess byðist; gat því undir eins gjört sér að góðu, ef svo vildi verkast, að ganga að erviðri líkamsvinnu, í stað þess að bíða aðgjörðalaus þar til eitthvert betra eða vænlegra atvinnustarf byðist. Slíkum mönnum aðkomnum getur frá upphafi notast skólamentanin, er þeim áður hefir hlotnast. Má og fullyrða, að Páll Þorláksson, eins einbeittur í lund og hann var og með eins fjölhæfu atgjörvi og hann hafði til að bera, myndi hafa orðið frábær afkastamaður í hverri stöðu, sem hann hefði að sér tekið.

En vafalaust sneri hann sér að því að búa sig undir hið kristilega kennimannsembætti fyrir þá sök, að hann taldi víst, að í þeirri stöðu væri hann líklegur til þess með hjálp guðs að gjöra mest gagn. Á öðru sumri eftir komu hans vestur frá Íslandi var hann viðstaddur, er megin-deild lúterskra Norðmanna í Vesturheimi, sú er venjulega nefnist *Norska synódan*, hélt kirkjuþing sitt. Varð hann hrifinn af kirkjulífi því, er hann kyntist þar, og afréð svo samkvæmt ráðlegging bræðranna norsku, sem undir eins fengu á honum bezta álit, að verða prestur. Norska synódan hafði þá ekki komið sér upp prestaskóla, en notaði fyrir væntanlega kennimenn sína prestaskóla Missouri-synódunnar þýzku í St. Louis, því að andastefna þeirra tveggja kirkjufélaga var nákvæmlega eins. Á þann prestaskóla lét Páll ásamt nokkrum norskum stúdentum á sama reki innritast haustið 1872, las þar svo guðfræði af mesta kappi næstu þrjá vetur, gat sér hinn bezta orðstír fyrir framkomu sína alla í þeim skóla og útskrifaðist þaðan 1875 á öndverðu sumri.

Forstöðumaður prestaskóla þess, dr. Walther, hafði ekki að

eins sett sérstaklegt mót á þá mentastofnan, heldur var hann og lífið og sálin í Missouri-synódunni, sem prestaskóla þeim hafði komið upp, og lútersku kirkjudeildunum hinum, er við hana voru tengdar: Walther var kirkjulegt stórmenni, sem meðal samtíðar-kynslóðarinnar átti fáa jafningja, eða helzt enga. Og með frábærum hæfileikum sínum tókst honum meðal landa sinna í Vesturheimi að grundvalla ákaflega sterka og volduga kirkju, sem meðal annars einkennir sig að óviðjafnanlegri fastheldni við þann skilning á kristindóminum, er á seytjándu öld réð hjá hinum lútersku feðrum á Þýzkalandi. Þrunginn af rétttrúnaðaranda þeirrar aldar og lotning fyrir reformazióninni lútersku var prestaskólinn þýzki í St. Louis svo sem að sjálfsögðu. Má þá vita, að andrúmsloftið þar hefir verið stórkostlega frábrugðið því, er á þeirri tíð var — og vitanlega enn er — í skólanum í Reykjavík, sem Páll Þorláksson var svo nýlega genginn út úr. Inn í nýjan heim komst hann vissulega við að setjast við fætur Walthers. Og víst duldist honum það ekki. Hann undi sér þar mæta-vel; það var eins og hann hefði alt af átt þar heima. Hann fann þar þá kristindómstegund, sem átti svo einstaklega vel við hann; beitti og allri orku við hið fyrirsetta verk í skólanum, náði óbilanda haldi á öllum rétttrúnaðar-fræðunum þar og var hiklaust ákveðinn í því, er hann útskrifaðist, að framfylgja kristindóminum samkvæmt þeim fræðum út í yztu æsar, hversu mikla baráttu og sjálfsafneitan sem það kynni að kosta hann.

Nálega undir eins og hann hafði lokið fullnaðarprófi í guðfræðum var hann prestvígður af H. A. Preus, formanni Norsku synódunnar á ársþingi þess kirkjufélags 8. Júlí 1875. Hóf hann prestskap sinn með því að þjóna norskum söfnuðum nokkrum (Green Valley-söfn, þeirra helztur) í Shawano County í Wisconsin-ríki; en jafnframt var hann prestur Íslendinga-hóps, ekki fjölmenns, er sezt hafði þar að fast við Norðmanna-bygðina eða inni í henni. Í þeim hópi voru foreldrar séra Páls, sem komið höfðu af Íslandi vestur ári síðar en hann, og annað venzlafólk hans. Sú Íslendinga-bygð varð síðar smásaman að engu. Á öðru sumri brá hann sér snöggvast til Íslands. Áður var hann í prestskapnum enn meir orðinn bundinn við landa sína, enda fjölgaði Íslendingum óðum hér vestra um þetta leyti. Undir vetur 1875 settist fyrsti hópurinn að í Nýja Íslandi—það fólk kom austan frá Kinmount í Ontario—, og 1876 á miðju sumri kom miklu stærri hópur þangað rakleiðis frá Íslandi. Þegar undir eins þá hafði séra Páll nokkur afskifti af Ný-Íslendingum, kom jafnvel til þeirra allra snöggvast og einsetti sér að setjast að hjá þeim og gjörast þar prestur. Þótt það drægist lengur en við var búist fyrir ýmsar ástæður, sem ekki varð við

ráðið. Næsti vetur var hörmungatíð skelfileg í Nýja Íslandi, því þá æddi þar bólusýkin og fólkið hrundi niður unnvörpum. Á miðju sumri, 1877 brá eg mér frá Minneapolis á fund bágstaddra landa minna norður í Nýja Íslandi fyrir áskoran nokkurra í þeim hópi, til þess að kynnast ástæðum þar. Sú ferð varð til þess, að eg um haustið tók prestsköllun þaðan frá stórum parti hins íslenzka nýlendulýðs, því þá voru litlar og fyrir sumum engar líkur til, að séra Páll myndi geta losnað frá skyldustörfum sínum meðal Norðmanna syðra og sint hinni afskektu Íslendinga-bygð norður við Winnipeg-vatn. Engu að síður kom séra Páll norður til Nyja Íslands sama haust sem eg og hóf þar kennimannlega starfsemi. Ekki gat orðið af kirkjulegri samvinnu með okkur, og olli því mismunandi skilningur á kristindóminum. Nýlendulýðurinn skiftist út af trúmálum í tvent. Leitast var við af málsaðilum báðum á almennum fundum og á annan hátt að komast til einingar í trúnni, en tilraunir þær höfðu ekki tilætlaðan árangur. Flokkaskiftingin hélt áfram fyrst um sinn. Sumir hafa talið þennan trúar-ágreining í öndverðri frumbýlingssögu vorri hér í álfu tómt böl, en blessanin var bölinu meiri, eða bölið átti að verða og varð oss Íslendingum til blessunar. Líklega hefir aldrei áður í sögu þjóðar vorrar af alþýðu íslenzkri jafn-mikið og þá verið hugsað um sannindi kristinnar trúar. Vér þurftum allir að ganga í gegn um þessa reynslu.

Að eins parta úr tveim árum dvaldi séra Páll í Nýja Íslandi. Hann var frá upphafi mjög óánægður með það landnámssvæði, og tók brátt að vinna að því, að Íslendingar fengi komist þaðan burt á annan betra stað. Upp úr þeim tilraunum hans varð til Íslendinga-bygðin í Norður-Dakota austur frá Pembina-fjöllum, sem eins og alkunnugt er og hann bjóst við varð síðar mjög blómlegt hérað. Lang-flest safnaðafólk hans fluttist þangað úr Nýja Íslandi á árunum 1878 og 1879. Og upp frá því átti hann aðallega heima í þessarri nýju bygð. Myndaðist umhverfis hann að Mountain frumsöfnuður þeirrar bygðar—Víkur-söfnuður—, sem á undan öllum íslenzkum söfnuðum í Vesturheimi varð til þess að koma sér upp kirkju, þótt ekki væri það fyrr en eftir fráfall séra Páls. Ótrúlega mikið lagði séra Páll á sig í sambandi við burtflutning fólksins frá Nýja Íslandi og landnám þess syðra; var hann á þeim árum alt af öðruhvoru á ferðum langt burt frá heimili sínu víðsvegar um Norðmanna-bygðir suður í ríkjum, til þess einkum að safna þar fé og gripum hjá efnuðum og velviljuðum trúbræðrum, hinum blásnauðu íslenzku frændum og frumbyggjum til handa. Því að langflestir komu allslausir frá Nýja Íslandi, og þótt næsta ervitt væri fyrir blásnautt fólk að bjargast af í eyðimörkinni við Winnipeg-vatn, hlaut þó fyrst í stað að vera enn erviðara að hafa sig fram á

Dakota-sléttunum þrátt fyrir alla þeirra frjósemi. Út í yztu æsar tók séra Páll þátt í hinum erviðu kjörum safnaðarfólks síns, lagði alt í sölurnar fyrir velferð þess bæði andlega og líkamlega, varð þó stundum úr þeirri átt fyrir litlu þakklæti, og jafnvel upp á síðkastið, þá er sízt skyldi, eftir að heilsa hans hafði bilað, fyrir ómurlegum og með öllu óverðskulduðum mótblástri úr sömu átt. Fram í opinn dauðann vann hann að verki embættisköllunar sinnar með þeim trúarstyrk, þeirri óeigingirni og þolinmæði, sem þeir einir geta, er vita sig standa í þjónustu guðs og treysta handleiðslu hans í Jesú nafni. Hann andaðist að Mountain úr brjóstveiki, sem hann langlíklegást bakaði sér með hrakningi á ferðum sínum og of harðri vinnu — frá jarðnesku sjónarmiði löngu fyrir tímann — 12. Marz 1882, að eins á 33. aldursári.

Tólf árum seinna og sjö mánuðum (30. Okt. 1894) var steinstöpull reistur á leiði séra Páls í grafreit Víkursafnaðar að Mountain, og er þar grafið nafn hans, fæðingar- og dánar-ár, einnig árið, sem hann prestvígðist, og árið, sem hann stofnaði Dakota-nýlenduna íslenzku. Minnisvarði sá var að all-miklu leyti kostaður af samskotafé frá Vestur-Íslendingum, sem heiðra vildu minning hins látna.

Steinmarkið á gröf séra Páls minnir á mjög merkilegan kapítula í öndverðri sögu íslenzks landnáms hér í álfu — einkum fyrir þá sök merkilegan, að þá var frjáls kirkja meðal Íslendinga í fyrsta sinni á æfi þeirra að berjast fyrir tilveru sinni — svo sem að sjálfsögðu með miklum hörmungum.

*Jón Bjarnason.*

---

## HALLDÓR E. BRIEM.

Séra Halldór Briem er fæddur að Espihóli í Eyjafirði 5. September. 1852. Foreldrar hans voru Eggert sýslumaður Briem og kona hans, Ingibjörg Eiríksdóttir, Sverrissonar.

Hann útskrifaðist af lærða skólanum í Reykjavík 1871 og úr úr prestaskólanum þar 1875. Þeir séra Páll Þorláksson komu undir eins í lærða skólann og útskrifuðust þaðan undir eins.

Sumarið 1876 fór Halldór Briem til Ameríku, sem túlkur með öðrum hópnum stóra, er þá fluttist vestur um haf og settist að í Nýja Íslandi. Næsta vetur dvaldi hann hér vestan hafs. Hafði hann um haustið fengið tilboð um að gjörast aðstoðarprestur hjá presti einum í lútersku kirkjufélagi, er nefnt var „Konferenzan“; í því voru aðallega norskir söfnuðir, en einnig nokkrir danskir; sú kirkjudeild nefnist nú „Fríkirkjan“. Átti Konferenzan í ófriði

miklum við „Norsku synóduna“, sem var hið eina stóra kirkjufélag lúterskra Norðmanna í Vesturheimi, þangað til „Sameinaða kirkjan“ kom til sögunnar. Ekki varð þó af því, að Halldór þægi boðið frá Konferenzu-prestinum. Í þess stað réðst hann, fyrir milligöngu séra Páls Þorlákssonar, í að sækja um hríð fyrirlestra á prestaskóla Norsku synódunnar í Madison, Wisconsin; vildi hann með því afla sér sem beztrar þekkingar á skólamálum lúterskra kirkjumanna hér í álfu. En dvöl hans þar varð skemri en við hafði verið búist. Fyrir árslok 1876 hvarf hann þaðan burt, og



Séra Halldór E. Briem.

varð hann fyrir þá viðkynningu við mentastofnan þessa og kirkjufélagið, er hana átti, allmjög andstæður sérstefnu Norsku synódunnar. Eftir nýár og fram á vor 1877 dvaldi Halldór í Minneapolis; en fór þá heim til Íslands. Þar átti hann þó í það skifti ekki nema stutta dvöl, því að undir árslok kom hann aftur vestur, og settist þá að í Nýja Íslandi.

Í September 1877 hóf blaðið „Framfari“ göngu sína; var það gefið út í Lundi við Íslendingafljót af „Prentfélagi Nýja Íslands“, en í stjórn þess félags voru þeir Sigtryggur Jónasson, Friðjón

Friðriksson og Jóhann Briem. Eftir að Halldór Briem var að nýju vestur kominn tók hann að sér ritstjórn „Framfara“, og byrjaði með blaði því, er dagsett er 24. Janúar 1878 (9. tölublaði 1. árgangs). Hélt blaðið áfram að koma út undir ritstjórn hans til Janúar-loka 1880.

Í trúmála-ágreiningi þeim, sem um þær mundir átti sér stað meðal safnaðafólks í Nýja Íslandi, tók Halldór töluverðan þátt í blaði sínu, og andmælti hann þeirri stefnunni, er studdist við kenningar Norsku synódunnar.

Vorið 1880 tók hann prestsköllun frá söfnuðum þeim í Nýja Íslandi, sem séra Jón Bjarnason hafði þjónað síðan haustið 1877, og var hann prestvígður af séra Jóni á Gimli pálmasunnudag, 21. Marz, 1880. Þeim söfnuðum þjónaði hann svo næsta ár, eða fram í miðjan Marz 1881. Var þá orðið næsta þunnskipað í hinni íslenzku nýlendu við Winnipeg-vatn, því að allur þorri fólksins, er haft hafði séra Pál Þorláksson fyrir kirkjulegan leiðtoga, var þá kominn þaðan burt, og seztur að í nýlendunni austan við Pembina-fjöll í Dakota: en líka fluttust burt margir aðrir, sem hinum kirkjumálaflokknum tilheyrðu; settust þeir í bráðina að í Winnipeg, en flestir þeirra námu síðar land í bygð þeirri í Manitoba, sem nefnd er Argyle-bygð.

Sökum þess að fólkið fækkaði svo mjög á þessu skeiði í Nýja Íslandi hætti séra Halldór um vorið 1881 kennimannlegu starfi þar nyrðra, og flutti sig fyrst í stað til Winnipeg. Veitti hann Íslendingum þar nokkra prestsþjónustu það ár. Hins vegar var hann þó aðallega frá vordögum 1881 til sama tíma árið 1882 prestur Íslendinga í Lyon og Lincoln héruðum í Minnesota, samkvæmt köllunarbréfi, er þeir höfðu sent honum þegar í Desember 1880. En vorið 1882 kom hann aftur þaðan að sunnan til Winnipeg og settist þar að um hríð. Þjónaði hann frumbýlingssöfnuðinum íslenzka þar einn ársfjórðung (Maí—Ágúst). Um sama leyti vann hann líka prestsverk nokkur fyrir landa sína í Dakota-bygðinni og í Argyle-bygð sem þá var í fyrstu byrjan.

Alfarinn hvarf séra Halldór heim til Íslands aftur eftir miðjan Ágúst-mánuð 1882. Á heimleiðinni kom hann við í Kaupmannahöfn og beið þar þangað til honum var innan skamms veitt kennaraembætti við Möðruvallaskólann. Í þeirri stöðu hefir hann verið lengst af síðan, en upp á síðkastið hefir hann unnið við Landsbókasafnið í Reykjavík, og er þar nú í fastri stöðu. Meðan hann var í kennarastöðunni nyrðra (á Möðruvöllum og síðast á Akureyri), samdi hann nokkrar kenslubækur, sem góðan vitnisburð hafa hlotið. En af kirkjumálum hefir hann mjög lítið skift sér opinberlega síðan hann fór heim til Íslands.

*F. H.*

# Söfnuðir,

## sem eru eða verið hafa í sambandi við kirkjufélagið.

1. *Park-söfnuður* í Norður-Dakota. Stofnaður 24. Nóv. 1880. Gekk í kirkjufélagið þegar það var stofnað (1885). Sameinaðist 2. Ágúst 1885 Garðar-söfnuði.

2. *Garðar-söfnuður* í N.-Dakota *). Sameinaðist 2. Ágúst 1885 Park-söfnuði.

Hinir sameinuðu söfnuðir nefnast eftir það Garðar-söfnuður. Hann gekk í kirkjufélagið eftir kirkjuþing sama ár. Sagði sig úr kirkjufélaginu 12. Júlí 1909. Allmargir safnaðarmenn, sem vildu ekki slita sambandi við kirkjufélagið, sögðu sig þá úr söfnuðinum og mynduðu nýjan söfnuð, er nefnist Lúters-söfnuður.

3. *Tungár-söfnuður* í N.-Dakota. Stofnaður 7. Febrúar 1885. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Skiftist vorið 1886 í tvent, og partur af honum myndaði nýjan söfnuð, sem nefnist:

4. *Hallson-söfnuður.* Hann gekk í kirkjufélagið á ársfundi sínum 14. Janúar 1887.

5. *Austur-Sandhæða-söfnuður* í N.-Dakota. Stofnaður vorið 1885. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Sameinaðist 20. Nóv. 1886 Tungár-söfnuði (þeim parti, sem ekki hafði gengið í Hallson-söfnuð), og nefnast hinir sameinuðu söfnuðir:

6. *Vídalíns-söfnuður.* Hann gekk í kirkjufélagið á fyrsta ársfundi sínum 12. Janúar 1887.

7. *Pembina-söfnuður* í N.Dakota. Stofnaður haustið 1884.**) Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing.

8. *Little Salt-söfnuður* í N.-Dakota.***) Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Síðan 1891 nefnist hann *Grafton-söfnuður.*

9. *Fyrsti lúterski söfnuður í Winnipeg* í Manitoba. Stofnaður 1878. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Frá því er

---

*) Hvenær sá söfnuður var upprunalega stofnaður hefi eg ekki getað fengið vitneskju um, en erindsrekar frá honum voru á undirbúningsfundinum 23. Jan. 1885, þó ekki gengi hann þá undireins í kirkjufélagið.

**) Undirbúningsfundur haldinn 23 Nóv 1884; safnaðarlög samþykt á fundi 4. Jan. 1885.

***) Hvenær Little Salt-söfnuður var upprunalega stofnaður hefir ekki fengist áreiðanleg vitneskja um.

hann var stofnaður og þangað til 1884 nefndist hann Þrenningar-söfnuður.

10. *Fríkirkju-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður 1. Janúar 1884. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Skiftist í tvent 13. Júlí 1885, og meiri hluti myndaði 26. Júlí sama ár nýjan sofnuð, er nefnist:

11. *Frelsis-söfnuður.* Hann gekk þá undir eins í kirkjufélagið.

12. *Syðri Víðines-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður haustið 1877, og nefndist þá og fram að 1885 Steinkirkju-söfnuður. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Nefndist eftir 1890 *Víðines-söfnuður.*°

13. *Nyrðri Víðines-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður haustið 1877, og nefndist þá og fram að 1885 Bæjar-söfnuður. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Nefnist eftir 1890 *Gimli-söfnuður.* Sagði sig úr kirkjufélaginu í Apríl 1891. Endurreistur í Febrúar eða Marz 1900 og gekk að nýju í kirkjufélagið á kirkjuþingi það ár.

°Þessir tveir söfnuðir voru sameinaðir frá 1886 og til vors 1889, og nefndust þá Víðines-söfnuður.

14. *Árnes-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður 12. Janúar 1887. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Sagði sig úr kirkjufélaginu í Apríl 1891. Endurreistur 1892 og gekk að nýju í kirkjufélagið 1893.

15. *Breiðuvíkur-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður haustið 1877. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing. Sagði sig úr kirkjufélaginu 4. Apríl 1891. Endurreistur í Febrúar eða Marz 1900, og gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi það ár.

16. *Bræðra-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður haustið 1877. Gekk í kirkjufélagið fyrir fyrsta kirkjuþing.

17. *Mikleyjar-söfnuður* í Manitoba. Í Mikley varð fyrst til söfnuður haustið 187[illegible] en eftir 1881 virðist hann hafa fallið í dá. Síðan reis þar upp söfnuður 14. Febrúar 1886, og gekk hann um leið í kirkjufélagið. Sagði sig út kirkjufélaginu 16. Okt. 1891. En mánuði síðar sundraðist söfnuðurinn; hélt minni hlutinn nafni hans og eignum, og hefir síðan verið í kirkjufélaginu.

18. *Víkur-söfnuður* í N.-Dakota (Moutain). Stofnaður 30. Nóv. 1880. Gekk í kirkjufélagið 13. Júlí 1885. Sagði sig úr kirkjufélaginu 18. Janúar 1910.

19. *Fjalla-söfnuður* í N.-Dakota. Stofnaður 1886.*) Gekk í kirkjufélagið í Júní 1887.

20. *Duluth-söfnuður* í Minnesota. Stofnaður sumarið 1888.

*) Undirbúningsfundur haldinn 20. Júní 1886 Safnaðarlög samþykt á fundi í Des. s. á.

Gekk um leið í kirkjufélagið. Hvarf úr sögunni fyrir kirkjuþing 1890.

21. *Victoria-söfnuður* í British Columbia. Stofnaður og gekk í kirkjufélagið fyrir kirkjuþing 1889. Sagði sig úr kirkjufélaginu sumarið 1892.

22. *Þingvalla-nýlendu-söfnuður* í Saskatchewan. Stofnaður sumarið 1888. Gekk í kirkjufélagið í Desember sama ár.

23. *Selkirk-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður 1889. Gekk í kirkjufélagið um vorið sama ár.

24. *Brandon-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður og gekk í kirkjufélagið vorið 1889.

25. *Þingvalla-söfnuður* í N.-Dakota (Eyford). Stofnaður 31. Marz 1889 af broti úr Garðar-söfnuði, og gekk um leið í kirkjufélagið.

26. *Fljótshlíðar-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður og gekk í kirkjufélagið vorið 1890. Nefnist síðan 1900: *Geysis-söfnuður.*

27. *Marshall-söfnuður* í Minnesota. Stofnaður 1887. Gekk í kirkjufélagið vorið 1891.

28. *Sánkti Páls-söfnuður* í Minneota, Minnesota. Stofnaður 1887. Gekk í kirkjufélagið vorið 1891.

29. *Lúters-söfnuður* í Saskatchewan (Lögbergs-nýl.). Stofnaður 13. Júlí 1891. Gekk sama ár í kirkjufélagið. Hætti að vera til sumarið 1894.

30. *Péturs-söfnuður* í N.-Dakota. Stofnaður 28. Okt. 1893 og gekk um leið í kirkjufélagið.

31. *Lincoln-söfnuður* í Minnesota. Stofnaður 1879. Gekk í kirkjufélagið 12 Des. 1894.

32. *Vesturheims-söfnuður* í Minnesota. Stofnaður 1879. Gekk í kirkjufélagið 14. Júní 1896.

33. *Melanktons-söfnuður* (í Mouse River-bygð) í N.-Dakota. Stofnaður í Júlí 1897. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1898.

34. *Jóhannesar-söfnuður* í Manitoba (Pipestone-bygð). Stofnaður 15 Febrúar 1898. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1899.

35. *Alberta-söfnuður* í Alberta. Stofnaður 30. Janúar 1900. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár. Sagði sig úr kirkjufélaginu 15 Nóv. 1909.

36. *Lúters-söfnuður* í Minnesota (Roseau-bygð). Stofnaður 15. Ágúst 1899. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1900. Hætti að vera til 1903 vegna burtflutnings fólks úr bygðinni.

37. *Guðbrands-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður 8. Apríl 1900. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár.

38. *Sánkti Jóhannesar-söfnuður* í N.-Dakota. Stofnaður í Maí

1900. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár. Hætti að vera til nálægt nýári 1905 vegna burtflutnings fólks.

39. *Ardals-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður vorið 1902. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár.

40. *Konkordía-söfnuður* í Saskatchewan (í Þingvalla-nýlendu). Stofnaður 5. Nóv. 1901. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1902.

41. *Trínitatis-söfnuður* í Manitoba (Big Grass-bygð). Stofnaður 7. Júní 1903. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár.

42. *Swan River-söfnuður* í Manitoba. Stofnaður í Maí 1903. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár.

43. *Ísafoldar-söfnuður* í Saskatchewan (Dongola-bygð). Stofnaður 6. Sept. 1903. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1904.

44. *Hóla-söfnuður* í Saskatchewan (Tantallon-bygð). Stofnaður 1. Maí 1904. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár. Hætti að vera til um nýár 1909.

45. *Tjaldbúðar-söfnuður* í Winnipeg, Manitoba. Stofnaður sumarið 1894. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1905. Sagði sig úr kirkjufélaginu 8. Júlí 1909.

46. *Furudals-söfnuður* í Manitoba (Pine Valley-bygð). Stofnaður 11. Júní 1905. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár.

47. *Kristnes-söfnuður* í Saskatchewan (Vatna-bygð). Stofnaður í Janúar 1906. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár.

48. *Edmonton-söfnuður* í Alberta. Stofnaður 5. Ágúst 1906. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1907.

49. *Lundar-söfnuður* í Manitoba (Álftavatns-bygð). Stofnaður haustið 1906. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1907.

50. *Vatnasöfnuður* í Saskatchewan. Stofnaður nálægt nýári 1907. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1907. Sagði sig úr kirkjufélaginu 23. Janúar 1910.

51. *Quill Lake-söfnuður* í Saskatchewan. Stofnaður sumarið 1906. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1907. Sagði sig úr kirkjufélaginu 5. Janúar 1910.

52. *Immanúels-söfnuður* í Manitoba (Baldur). Stofnaður 30. Október 1907. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi 1908.

53. *Foam Lake-söfnuður* í Saskatchewan. Stofnaður vorið 1909 af fólki austan við Foam Lake, sem áður tilheyrði Kristnes-söfnuði. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár.

54. *Agústínus-söfnuður* í Saskatchewan (Vatna-bygð). Stofnaður vorið 1909. Gekk í kirkjufélagið á kirkjuþingi sama ár.

*Spanish Fork-söfnuður* í Utah var stofnaður árið 1890, og var árin 1890—1893 að nokkru leyti í sambandi við kirkjufélagið, en komst eftir það í samband við General Council.

# PRESTAR

*kirkjufélagsins fyrsta aldarfjórðung.*

Jón Bjarnason. Fæddur 15. Nóvember 1845. Vígður 29. Sept. 1869. Prestur Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg.

Hans Baagöe Thorgrímsen. Fæddur 21. Ágúst 1853. Vígður í Júní 1882. Prestur að Mountain, N.-Dakota.

Friðrik J. Bergmann. Fæddur 15. April 1858. Vígður 17. Júní 1886. Sagði sig úr kirkjufélaginu 3. Ágúst 1909.

Magnús J. Skaftasen. Fæddur 4. Febrúar 1850. Vígður 9. Maí 1875. Sagði sig úr kirkjufélaginu 3. April 1891.

Niels Steingrímur Thorláksson. Fæddur 20. Janúar 1857. Vígður 21 Ágúst 1887. Prestur í Selkirk, Man. Varaforseti kirkjufélagsins.

Hafsteinn Pétursson. Fæddur 4. Nóv. 1858. Vígður 9. Febr. 1890. Sagði sig úr kirkjufélaginu 15. Júní 1896.

Björn B. Jónsson. Fæddur 19. Júní 1870. Vígður 25. Júní 1893. Prestur í Minneota, Minn. Forseti kirkjufélagsins.

Jónas Ari Sigurðsson. Fæddur 6. Maí 1865. Vígður 25. Júní 1893. Sagði af sér prestsþjónustu innan kirkjufélagsins í Júní 1901.

Oddur Vigfús Gíslason. Fæddur 8 April 1836. Vígður 28. Nóv. 1875. Sagði sig úr kirkjufélaginu 24. Ágúst 1903.

Þorkell Ólafur Sigurðsson. Fæddur 30. April 1866. Vígður 30. Júní 1895. Dáinn 27. Desember 1895.

Jón J. Clemens. Fæddur 5. September 1872. Vígður 28. Júní 1896. Sagði af sér prestsþjónustu innan kirkjufélagsins í Okt. 1901.

Rúnólfur Marteinsson. Fæddur 26. Nóv. 1870. Vígður 7. Maí 1899 Prestur að Gimli, Man.

Pétur Hjálmsson. Fæddur 15. Maí 1863. Vígður 21. Júní 1903. Prestur að Markerville, Alta.

Friðrik Hallgrímsson. Fæddur 9. Júní 1872. Vígður 12. Okt. 1898. Prestur að Baldur, Man. Skrifari kirkjufélagsins.

Kristinn K. Ólafsson. Fæddur 28. September 1880. Vígður 26 Júní 1904. Prestur að Garðar, N.-Dak. Varaskrifari kirkjufél.

Jóhann Bjarnason. Fæddur 7. Des. 1865. Vígður 17. Maí 1908. Prestur að Hnausum, Man.

Runólfur Fjeldsteð. Fæddur 17. Maí 1879. Vígður 14. Júní 1908. Prestur að Kristnesi, Sask.

Hjörtur J. Leó. Fæddur 6 Janúar 1875. Vígður 2. Maí 1909. Prestur í Þingvalla-nýlendu, Sask.

Sigurður S. Christopherson. Fæddur 21. April 1876. Vígður 27. Júní 1909. Trúboðs-prestur kirkjufélagsins.

Guttormur Guttormsson. Fæddur 10. Des. 1880. Vígður 27. Júní 1909 Trúboðs-prestur kirkjufélagsins.

# EMBÆTTISMENN

*kirkjufélagsins fyrstu tuttugu og fimm árin.*

*Forsetar.*

Séra Jón Bjarnason 1885—1908.
Séra Björn B. Jónsson 1908—

*Vara-forsetar.*

Magnús Paulson 1885—1886.
Séra Friðrik J. Bergmann 1886—1899.
Séra N. Stgr. Thorláksson 1899—

*Skrifarar.*

Friðjón Friðriksson 1885—1886.
Jakob Líndal 1886—1888.
Séra N. Stgr. Thorláksson 1888—1890 og 1891—1893.
Séra Hafsteinn Pétursson 1890—1891 og 1893—1895.
Séra Jónas A. Sigurðsson 1895—1898.
Séra Björn B. Jónsson 1898—1906.
Séra Friðrik Hallgrímsson 1906—

*Vara-skrifarar.*

Stefán Guðmundsson 1885—1886.
Friðjón Friðriksson 1886—1888 og 1889—1890.
Séra Magnús Skaftasen 1888—1889.
Séra Jónas A. Sigurðsson 1890—1891.
G. Stefán Sigurðsson 1891—1892.
Jóhannes H. Frost 1892—1893.
Séra Björn B. Jónsson 1893—1898.
Séra Jón J. Clemens 1898—1902.
Séra Rúnólfur Marteinsson 1902—1906.
Séra Kristinn K. Ólafsson 1906—

*Féhirðar.*

Árni Friðriksson 1885—1897.
Jón A. Blöndal 1897—1906.
Elis Thorwaldson 1906—

*Vara-féhirðar.*

Sigurður Mýrdal 1885—1887.
Jón Jónsson (frá Pembina) 1887—1888.
Jósef Walter 1888—1889.
Kristinn Ólafsson 1889—1890.
Stígur Thorwaldson 1890—1891 og 1895—1896.
H(ermann). Hermann 1891—1893 og 1894—1895.
Skafti Arason 1893—1894.
Dr. Moritz Halldórsson 1896—1897.
Halldór S. Bardal 1897—1898.
Þorgils Halldórsson 1898—1899.

Ólafur S. Thorgeirsson 1900—1903.
Jón J. Bíldfell 1903—1904.
Jón J. Vopni 1904—1906 og 1907—
Albert Jónsson 1906—1907.

---

## KIRKJUR.

1. Víkur-safnaðar. Bygð 1884. Vígð 24. Júní 1888.
2. Pembina-safnaðar. Bygð 1886. Vígð 29. Júní 1889.
3. Fyrsta lút. safn. í Winnipeg. Bygð 1887. Vígð 29. Desember 1887. Logð niður 1904 og önnur bygð í hennar stað (sjá 22).
4. Garðar-safnaðar. Bygð 1888. Vígð 26. Júní 1892.
5. Vídalíns-safnaðar. Bygð 1888-92. Vígð 1. Júlí 1894. Endurbætt 1904.
6. Fríkirkju- og Frelsis-safnaða. Bygð 1889. Vígð 28. Júní 1896. Endurbætt 1908 og 1909.
7. Selkirk-safnaðar. Bygð 1889. Vígð 28. Júní 1893. Flutt og endurbætt 1895-96 og svo aftur vígð 24. Júní 1900.
8. Mikleyjar-safnaðar. Bygð 1890. Vígð 14. Sept. 1902.
9. Gimli-safnaðar Bygð 1891. Lögð niður 1907 og önnur bygð í hennar stað (sjá 27).
10. Grafton-safnaðar. Bygð 1891.
11. Brandon-safnaðar. Bygð 1891. Vígð 28. Maí 1893.
12. Marshall-safnaðar. Bygð 1891. Vígð 27. Júní 1897. Fauk og endurbygð 1892.
13. Victoria-safnaðar. Bygð 1890.
14. Vesturheims-safnaðar. Bygð 1891. Vígð 27. Júní 1897.
15. Þingvalla-safn. (Eyford). Bygð 1892. Vígð 9. Ágúst 1896.
16. Fjalla-safnaðar. Bygð 1894. Vígð 22. Júní 1902.
17. Tjaldbúðar-sfnaðar. Bygð 1894. Vígð 16. Desember 1894. Endurbætt 1902.
18. St. Páls-safnaðar. Bygð 1895. Vígð 27. Júní 1897. Endurbætt 1904.
19. Péturs-safnaðar. Bygð 1897. Vígð 25. Júní 1899.
20. Hallsón-safnaðar. Bygð 1897. Vígð 25. Júní 1899.
21. Lincoln-safnaðar. Bygð 1899. Vígð 3. Desember 1899.
22. Fyrsta lúterska safn. í Winnipeg. Bygð 1903-04. Vígð 26. Júní 1904. Kom í stað eldri kirkju (sjá 3).
23. Breiðuvíkur-safnaðar. Bygð 1904.
24. Konkordía-safnaðar. Bygð 1903-04. Vígð 4. Júlí 1909.
25. Þingvalla-nýl.-safnaðar. Bygð 1904. Vígð 4. Júlí 1909.
26. Víðines-safnaðar. Bygð 1905.

27. Gimli-safnaðar. Bygð 1906-07. Kom í stað eldri kirkju (sjá 9).

28. Bræðra-safnaðar. Bygð 1906-07.

29. Alberta safnaðar. Bygð 1906.

30. Immanúels-safn. (Baldur). Bygð 1907. Vígð 24. Nóv. 1907.

---

## TÍMARIT

*kirkjufélagsins fyrsta áldarfjórðung.*

1. *Sameiningin.* Mánaðarblað. Gefin út í Winnipeg. Ritstjóri séra Jón Bjarnason. Sýnisblað kom út í Desember 1885, en fyrsti árgangur byrjaði í Marz 1886. Kemur enn út.

2. *Aldamót.* Ársrit. Prentuð í Reykjavík 1891—1897 og í Winnipeg 1898—1903. Alls 13 árgangar. Ritstjóri séra Friðrik J. Bergmann.

3. *Áramót.* Ársrit. Gefin út í Winnipeg. Ritstjóri séra Björn B. Jónsson. Fyrsta hefti kom út 1905 og síðan hefti á hverju ári. Í ritstjórn fyrsta árs Áramóta vann séra Rúnólfur Marteinsson með séra Birni B. Jónssyni.

4. *Kennarinn.* Mánaðarblað. Gefinn út í Minneota Nóv. 1897 til Okt. 1901, undir ritstjórn séra Björns B. Jónssonar, og í Winnipeg Jan. 1902 til Sept. 1905, undir ritstjórn séra N. Steingríms Thorlákssonar.

5. *Börnin.* Mánaðarblað. Gefin út í Winnipeg Des. 1905—Febr. 1908. Ritstjóri séra N. Steingrímur Thorláksson. Fylgiblað með Sameiningunni, eða sérstök deild þess blaðs. Auk þess sérprentuð öll blöðin nema fyrir Jan. og Febr. 1908.

6. *Framtíðin.* Gefin út í Winnipeg Marz 1908 — Febr. 1910. Fyrri árgangurinn hálfsmánaðarblað; en síðari mánaðarblað. Ritstjóri séra N. Steingrímur Thorláksson.

---

## KIRKJUÞINGIN FYRSTA ALDARFJ.

*Hvenær og hvar þau hafa verið haldin.*

Undirbúningsfundur. 23.—25. Janúar 1885 í kirkju Víkur-safnaðar að Mountain, N.-Dak.

1. þing. 24.—27. Júní 1885 í húsi Framfarafélagsins í W.peg.
2. þing. 30. Júní — 2. Júlí 1886 í skólahúsinu að Garðar, N.-D.
3. þing. 21.—25. Júní 1887 í húsi Framfarafélagsins í W.peg.
4. þing. 22.—29. Júní 1888 í kirkju Víkur-safn. að Mountain, N.-Dak.

5. þing. 19.—24. Júní 1889 í kirkju Fríkirkju- og Frelsis-safnaða í Argyle-bygð, Man.
6. þing. 27. Júní — 3. Júlí 1890 í samkomuhúsi Bræðra-safnaðar í Nýja Íslandi, Man.
7. þing. 17.—22. Júní 1891 í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg.
8. þing. 24.—29. Júní 1892 í kirkju Garðar-safn., N.-D.
9. þing. 23.—27. Júní 1893 í Fyrstu lút. kirkju í W.peg.
10. þing. 26.—30. Júní 1894 í kirkju Víkur-safn., N.-D.
11. þing. 26. Júní—1. Júlí 1895 í kirkju Pembina-safn., N.-D.
12. þing. 25.—29. Júní 1896 í kirkju Fríkirkju- og Frelsis-safnaða, Man.
13. þing. 24.—29. Júní 1897 í kirkju St. Páls-safn., Minneota, Minn.
14. þing. 24.—29. Júní 1898 í Fyrstu lút. kirkju í W.peg.
15. þing. 23.—28. Júní 1899 í kirkju Hallson-safn., N.-Dak.
16. þing. 21.—25. Júní 1900 í kirkju Selkirk-safn., Man.
17. þing. 25.—30. Júní 1901 í kirkju Gimli-safnaðar, Man.
18. þing. 21.—26. Júní 1902 í kirkju Garðar-safn., N.-D.
19. þing. 18.—24. Júní 1903 í kirkju Fríkirkju- og Frelsis-safnaða, Man.
20. þing 24.—30 Júní 1904 í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg.
21. þing. 22.—27. Júní 1905 í kirkju St. Páls-safn., Minneota, Minn.
22. þing. 21.—27. Júní 1906 í kirkju Víkur-safnaðar, N.-D.
23. þing. 20.—25. Júní 1907 í Tjaldbúðinni í Winnipeg.
24. þing 19.—24. Júní 1908 í kirkju Selkirk-safn., Man.
25. 24.—30. Júní 1909 í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg.

*F. H.*

---

# Vöxtur kirkjufélagsins fyrsta aldar-fjórðunginn.

| Ár. | Tala safnaða | Mannfjöldi safnaðanna. | | | Tala Presta. | Kirkjueignir safnaðanna. | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | Fermdir. | Ófermdir. | Samtals. | | Alls | Skuldir á þeim. | Skuldlausar eignir. |
| 1886 | 14 | 1420 | 880 | 2300 | 2 | | | |
| 1891 | 22 | 2754 | 1587 | 4341 | 4 | | | |
| 1896 | 24 | 2844 | 1903 | 4747 | 6 | $ 29328 | $ 1230 | $ 28098 |
| 1901 | 32 | 3692 | 2348 | 6040 | 8 | 40975 | 1015 | 39960 |
| 1906 | 38 | 4303 | 2637 | 6940 | 9 | 102950 | 19290 | 83660 |
| 1909 | 44 | 4656 | 2558 | 7214 | 11 | 126252 | 22745 | 103507 |

Á fyrsta ársþingi 1885 voru söfnuðir 12, en ekki er til áreiðanleg skýrsla um mannfjölda safnaðanna þá.

Seinasta skýrslan er frá nýári 1909. Skömmu seinna hætti einn söfnuður (Hóla-sofn.) að vera til; en á kirkjuþingi það ár bættust við 2 söfnuðir. Á því þingi voru prestar kirkjufélagsins 14.



# Um myndirnar.

---

**Bls. 19.** Erindsrekar þeir, sem sátu á fyrsta ársþingi kirkjufélagsins, sem haldið var í Winnipeg 24.—27. Júní 1885. Af þeim eru þessir dánir. Bjorn Jónsson, Benedikt Pétursson, Kristján Kjærnested, Friðrik Jónsson, Ólafur Guðmundsson,—enn fremur Bjorn Pétursson, sem að eins var gestur á þinginu. Vantar á myndina Sigurð Mýrdal.

**Bls. 24.** Kirkja Víkur-safnaðar, Mountain, N.-Dak., þar sem kirkjufélagið var stofnað 23. Janúar 1885.

**Bls. 26.** Kirkja Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg, þar sem 25 ára afmælishátíð kirkjufélagsins. er haldin og 26. ársþing þess 17.—22 Júní 1910.

**Bls. 30,** Séra Jón Bjarnason, prestur Fyrsta lút. safnaðar í Winnipeg. Fyrsti íslenzkur kennimaður vestan hafs. Forseti kirkjufélagsins 23 ár; 1885—1908

**Bls: 35** Séra H.B. Thorgrímsen; prestur Vídalíns-, Hallson-, Péturs- og Víkur-safnaða í N.-Dak. Gekkst ásamt séra Jóni Bjarnasyni fyrir stofnun kirkjufélagsins.

**Bls. 39** Séra Bjorn B. Jónsson, núverandi forseti kirkjufélagsins.

**Bls. 50** og **51.** Prestar þeir, sem í þjónustu kirkjufélagsins eru og hafa verið.

**Bls. 61.** Séra Páll Þorláksson.

**Bls. 66.** Séra Halldór E. Briem.

